# Stutt Agrip
af
# Yfirsetu-qvenna frædum.

Utgéfid
af

Matthias Sartorph,
Meistara í sømu lærdóms list vid þad Konúngliga Universitet í Kaupmannahøfn.

Snúid á íslendsku, og nockru um veikindi sængurqvenna og stólpípur, samt Registri vidbætt
af

Jóni Sveinssyni.
Medic. provinc. Isl.

Ny óumbreytt Utgáfa eptir konúngligri skipan rádstøfud af hinu konúngliga Heilbrygdis-Rádi.

Prentad í Kaupmannahøfn, árid 1828.
á kóngskostnad,
hjá H. F. Popp.

Herr

Justitsraad og Professor

# Matthias Saxtorph,

min høistærede Velynder og uforglemmelige

Lærer

tilegnet.

Et Udtog

af

# Jordemoder-Videnskaben,

## Deres eget Værk,

overſat i det islandſke Sprog

underdanigſt

af

John Svendſen.

# Formáli rithøfunds
til
# Yfirsetu-qvennanna.

Séu þær nockrar, er vid brúkun ágrips þeßa einúngis, ætla sér ad komast fullum setum eptir þeim margbrotna lærdómi er bæklíngurinn høndlar um, og verda vellærdar og duganligar yfirsetu-konur vid hans eindæmi, án frekari tilsagnar og æfingar, svo er ei þeß ad dylja, ad ecki einúngis svíkur þær stórum ætlun sú, heldur vanbrúka þær og tilætlun þá eg hafdi mér fyrir augum, þá er eg útgaf ritid.

Reynslan sjálf mun draga þær úr skugga um, ad hvad hér einúngis er drepid á til ad stydja minnid, þarf náqvæmari skýrslu med, svo framt þær vilje skilja orsøkina og hid rétta samhengi þeirra sanninda er hér verda kénd, og eptir hverjum þær sjálfar egu

ad géta safnad sér skýrligum ímyndunum og fullkominni yfirbevísun um lærdóm þann og kunst, er þær á sídan, eptir skyldu og samvitsku, æfa skulu manna í milli.

Mundi nockud hin hrjóstruga og stutta útskýríng yfir limi þá er fædíngar verkinu vidkoma, draga þær á leid? nema þær med egin augum, á daudum líkömum, sæu og samanbæru tédra lima ásigkomulag vid útmálun þá er bókin géfur, og innprentudu sér svo, vid sanſanna hjálp, lángtum skýrligri þeckíngu enn nockur útmálun fær géfid; mundi þeim nockud hjálpa sú stutta útskýríng yfir fædínganna náttúru, samhengi og eginligleika? ef þær ei vid egin reynd þreifudu á, ad til hvers og eins eru óefanliga þær orsakir sem hér verda leiddar; og hverrar hjálpar væri ad vænta af þeim, er eptir lestri einum, án egin æfingar, og án þeß sjálfar ad hafa lært hid rétta handalag, vildu taka sér fyrir ad framqvæma og fúska í svo mikilvægu verki, hvar ecki rídur á minna enn tveggja manneskna lífi?

Tilgángur þeßa míns erfidis er því eing-anveginn sá: ad nockur skuli af eginn ram-leik fá héraf svo tilheyriliga og fullkomna þecking um fædíngarnar, sem einni yfirsetu-konu byrjar ad hafa, því til þeß er rit þetta mjög svo ógreiniligt, ónógt, og of stutt; heldur er þad samid í því skini: ad einkum þær, er af landi ofan géfa sig undir mína tilsögn og uppfrædíng, og hafa ad eins stutt-ann lærdómstíma, hefdu ad minnsta kosti nockra leidar-snúru vid ad halda, og gætu sídan vid hversdags gégnumlestur, jafnvel ad endadri sinni skólatíd, rifjad upp reglur þær og lærdóm, er þær ádur heyrt hafa gjörla útmáladann, og sjálfar heppiliga æft sig í. Í því tilliti er frædi þeßi hér svo ein-faldliga, samanhángandi og regluliga framm-sett, er mér virdtist best géta ordid.

Vildu nú þær, er uppfræddar eru í yfirsetuqvenna-ment, ecki láta sér leidast ad lesa og rifja upp med sér ad jafnadi, þad er þær ádur greiniliga heyrt, numid og reynt hafa; vildu þær teikna hjá sér öll þau til-

felli og fyriburdi, er í ydkun yfirsetufrædinnar dagliga fyrifalla; samanbera þá vid þann lærdóm er bókin inniheldur, og þannig prófa hann í ymsu er uppá fellur, bædi til ad auka sinn eginn vísdóm, og rétta þad sem ríkligri þecking og reynsla syna kann ad rángt sé; þá hefir eg nád mínu mikilvæga augnamidi, og er þad mér ei all-lítil gledi, ef þetta mitt ómak yrdi nytsamligt og ad haldi kæmi morgum í því tilliti.

---

## Prentvillur.

Bls. 46 l. 20, hmisliga, les: ymisliga.
— ibid. úvídkan, les: útvídkan.
— 102, l. 12. blótlát, les: blódlát.
— 177, l. 13, 192, les: 143 o. s. fr. og 171.

---

## Um Vegu Fædingarinnar.

§. 1.

Sá vegur, gégnum hvern fóstrid fædist, samanstendur af hørdum og mjúkum pørtum.

§. 2.

Þeir hordu partar eru ein samskeytíng af beinum, sem nedst í búknum tengjast hvert ødru, med brjóski og sina taugum, svoleidis: ad þau mynda ad innanverdu eitt íbjúgt hol, sem nefnist skál, edur mjadmar-hríngur, því hún er lík einu botnlausu rakfati.

§. 3.

A baka til í skálinni liggja þrjú blik bein, hverra hid effsta er þad nedsta lendabein (nedsti lidur í mjóhriggnum), sem er ávalt, og skagar

Af hvada pørtum samanstendur fædíngar vegurinn?
Hverir eru þeir hørdu partar?
Af hvad mørgum beinum samanstendur skálin?

A

nockud fram í holid — midbeinid kallast þad helgabein, sem innan til er bjúgt, og ad ofan hér um þverhandar breidt, en mjóckar því meir sem nidr ad dregur — þad nedsta kallast dausbein, sem er allra minnst og kann ad beygjast til og frá.

Merk: Þessi þrjú bein kallast einu nafni krossbeinid.

§. 4.

Á bádar hlidar og ad framan í skálinni liggja tvø stór bein, sem kallast mjadmarbein (þau nafnlausu bein), hvert þeirra fyri sig adgreinist hjá únglíngum í þrjú stycki, innan í holu þeirri sem lærbeinid snýst í (augakallinum); — þad efsta af styckjum þessum kallast mjadmarspadi, sem breidast er og flatast af þeim øllum, og tengist ad aptanverdu vid þad helgabein — þad nedsta kallast sessbeinid, sem ad innanverdu hefir í midjunni eina litla útstandandi nybbu, nedantil er þad þyckt, og beygir sig fram og uppá vid med mjóum enda sem krókur. Þad sem liggur ad framan, kallast lífbeinid, er hid

---

Hver af þessum liggja bak til?
Hvad skilst fyri krossbeinid, og hvad heita þau?
Hvar liggia miadmar beinin?
Hversu adgreinast þau?

minnsta af þeßum þremur, íbjúgt ad innanverdu, og liggur um þvert uppyfir ádur nefndum nybbum á seßbeininu; þar sem bædi lífbeinin liggja saman, eru þau breidust, og kallast sú breida fløt sem endar þeirra gjøra framan til á skálinni, ísbeinid (blygdunarbeinid).

Merk: Þeßir 3 partar mjadmarbeinsins halda sømu nøfnum hjá fullordnum, jafnvel þó þau séu þá svo saman gróin, ad valla merkist hvar þeirra samkomur eru.

§. 5.

Mjadmar-hríngurinn er hulinn ymisligum mjúkum pørtum; svosem: sinum, ædum, himnum, kjøti og húd, kann því hverki vídd hans né løgun at sjást, heldur finnast útvortis á líkamanum; nl.: Ísbeinit finnst uppyfir blygduninni; mjadmar-spadarnir bádum megin vid hverja njødm; seßbeinin nedan til beggja megin, þegar menn húka; lendabeinid nedan til ysirum mjóhrigginn; þad helgabein bak til í ofanverdri skorunni; og dausbeinid

Hvernin liggja lífbeinin?
Hvad skilst fyrir ísbeinit?
Med hverju er skálin yfirklædd?
Med því skálin er hulin, hvernin finnst þá hennar løgun og vídd?

ásamt skálarinnar innvortis rúmi og vídáttu, finna menn med einum fíngri, innan til í módurskeidinni.

§. 6.

Mjadmarspadanna breidu flatir, þær sem horfa innad, og liggja á bádar sidur; kroßbeinsins kúpuvaxna hæd at innan, sem liggur bakatil; og lífbeinsins hvaßi og efsti kantur at framanverdu, skapa barmana á skálinni, en holid mynda þau önnur bein, hvert hol, auk dýptar sinnar, hefir tvö op.

§. 7.

Þad efra op, edur inngángur til holsins, er ad mynd sem hjarta á spili, er snýr sínum mjóa enda ad ísbeininu, en þeim breidu ávölu hornum aptur á bádar sídur vid gnýpu kroßbeinsins, vídd þeß er almennt 1 þuml. minni frá gnýpu kroßbeinsins yfir til ísbeinsins, heldurenn um þvert milli mjadmar-spadanna, hvar skálin er $5\frac{1}{2}$ þuml. víd, sem þó er styttra enn frá viki því sem er vid kroßbeinid, yfir til hins á skack

---

Hver bein skapa barmana á skálinni?
Hver skapa holid?
Hvernin adgreiniſt holid?
Hvernin er þad efra op lagat?

ansprænis liggjanda lífbeins, hver vídd ad er stærst í þessu opi, einkum medan kiöt-treslarnir eru ei enn nú burtteknir.

§. 8.

Pad nedra op, edur útgángur skálarinnar, er ad mynd meir líkt eggi, og, vegna þeirra sinakéndu tresla, er liggja úr því helga beini ysir í sessbeinit, krínglóttast á baka til, verdur svo addreigid upp eptir, og mjórra móts vid ísbeinit; kallast þessi mjói endi opsins boginn undir ísbeininu. Vídátta þessa ops er minnst milli hlidanna, edur þeirra nedstu enda á sessbeinunum, þarámót 1 þuml. stærri aptan frá enda þess heilaga beins fram ad boga ís-beinsins, hvar hún er 5½ þuml. víd.

§. 9.

Skálarinnar innvortis dýpt er hvelf og íbjúg edur út undir sig, og stærri um máls ad innan, enn bædi inngángurinn og útgángurinn; hún er 6 þuml. laung ad aptanverdu, 4 þuml. út vid hlidarnar, og 2 þuml. ad fram-

---

Hvernin takmarkast þess vídátta?
Hversu er hid nedra op lagad?
Hvernin takmarkast þess vídátta?

an; hér af séſt, ad bædi op ſkálarinnar liggia nálægt hvert ødru ad framan, en lángt hvert frá ødru ad aptan, ſvo ad á óléttri konu ſtandandi, horfir midpúnktur hins efra ops, í ſeinaſta mánudi, uppí móti hennar nabla, ſem þá ſtendur lengra út enn annars, en midpúnktur hins nedra ſnidhallt fram á vid og nidur til jardar. Hér af flýtur, ad ef menn ímynda ſér lódrétta línu hángandi ofan frá nabla, gégnum midpúnkt hins efra ops nidur í hol ſkálarinnar, þá giørir ſú lína ſkálarinnar midás eda midlínu, og ſkuli téd lína gánga lódrétt til jardar nidur, gegnum midpúnkt ens nedra ops, má hún beygiaſt ad eins fram á vid, ſvo hún ſkapi einn breidann vínkil; ſvoleidis afmarkar þeßi midpúnktalína bugdu ſkálarinnar.

§. 10.

Hafi nú ſkálin hiá einum kvenmanni, hvert hún er ſtór edur lítil, vel edur illa ſkøpud, ofan ſkrifada løgun og mælíngu, kallaſt hún vel løgud ſkál, ad því hún er vel lagin

---

Hvar er ſkálin djúpuſt, og hvar grynnſt? Liggja opin rétt anſpænis hvert ødru?

til fædíngarinnar; en merkist ad hún hjá nockurri sé annadhvert þreyngri edur vídari í opunum, eda holinu, ellegar hennar lögun er skéckt, vegna einhvers beins, sem hefir óvenjuligann skapnad edur legu, svo kallast hún illa lögud skál, er vegna sinnar víddar eda þreyngsla orsakar ófullkomna fædíngu.

§. 11.

Sá mjúki fædingar-vegur samanstendur af hinum útvortis blygdunar limum og módurskeidinni.

§. 12.

Þeir útvortis fædingarlimir eda blygdanin, liggur ámilli læranna framan á skálinni, allt frá boga ísbeinsins, nidur ad endagatinu; í sinu náttúrliga heilbrigda ásigkomulagi, liggja þeir þéttara saman á meyum enn konum, eru opnastir hiá þeim er fædt hafa, og tapa sinni náttúrligu festu og stinnleika, því optar þeir af fædíngum útþenjast. Limir þeßir eru:

---

Hvad skilst fyri vel og illa lagada skál?
Med hvad mörgu móti kann skálin vera illa lögud?
Af hveriu samanstendur sá miúki fædíngarvegur?
Hvar liggia hinir útvortis fædíngarlimir?
Hvernin mismuna þeßir hiá meyum og konum?

1) venushædin (klettid), edur sá efsti partur, sem er hárgadur. 2) Pær stóru og þycku blygdunarvarir, sem tillykja blygdunina. 3) Sá svali vidkvæmi limur efst í skurdinum, sem kallast kitlari. 4) Pær smáu þvagvarir, sem liggja á snid innanundir blygdunar-vörunum nidur frá kitlaranum. 5) Hlandblödrunnar litla op á milli hinna smáu þvagvara. 6) Módurskeidar munninn, sem hjá meyum er ærid þraungur, og luktur einni himnu eda holldløppum, en stærri og vídari hjá þeim er opt hæfa fædt. 7) Haptid, edur himna, sem ad nedan samtengir þær stóru varir, en slitnar í øllum tímabærum fædíngum. 8) Milligardurinn, edur skinnbrú sú, er sést milli blygdunarinnar og endagatsins.

§. 13.

Módurskeidin er mjór, láungur, og bjúgur farvegur, sem liggur utan frá blygduninni inní hol skálarinnar, og festist yfir um miórri enda módurlífsins. Hún er ad innanverdu

---

Hverjer eru þeir?
Hvad skilst fyri módurskeidina?
Hvar liggur hún?
Hverju er hún áføst?

ofan og nedan øll med hruckum, er hjá meyum liggia þétt saman hver vid adra, sletjast nockud út hiá konum, og eru nær því sléttar hjá þeim er opt hafa fædt, af því módurskeidin þenst svo mjøg út í fædíngunni.

§. 14.

Hlandbladran liggur milli módurskeidarinnar og ísbeinsins, opnast í mjóa himnuartada pípu undir boga ísbeinsins, og er sú áføst vid þá ytri fædíngar limu.

§. 15.

Endaþarmurinn liggur lángsetis med bugdunni á enu helgabeini, opnar sig í endagatid fyri aptan milligardinn. Bædi hann og bladran taka eptir því meira eda minna rúm af í skálinni, sem þau eru full edur úttæmd til.

---

Hvernin er hún ad innan?
Hvar liggur hlandbladran?
Hvar er hennar op?
Hvernin liggur endaþarmurinn?
Hvar opnar hann sig?

## Um Módurlífid.

§. 16.

Módurlífid, ásamt pörtum þeim því áhánga, liggur í efra opi skálarinnar, midt á milli þlandblødrunnar og endaþarmsins, og er ásast vid módurskeidina, en lífhimnan tengir þad lausliga á bádar sídur vid skálina, ad framan vid blødruna, en aptan vid endaþarminn.

§. 17.

Vegna sinnar legu, og hola svampartada skapnadar, hverr at mestu leiti er af kjøttrefjum, ædum og himnukvapa, lætur þad sig léttiliga útvídka um medgaungutímann, og samankipra í og eptir fædínguna.

Merk: Auk þess módurlífit þjenar til getnadarins, er þad einnig limur sá, gégnum hvern mánada tídirnar hafa sitt rennsli.

§. 18.

Vidvíkjandi þess náttúrliga ástandi fyri medgaungutímann, skal adgæta:

---

Hvar liggur módurlífit?
Hverjum pørtum er þad samtengt?
Hversu er varid þess innvortis skapnadi? og hvada eginligleika leidir þaraf?
Hver er þess nytsemi?

1) Lögun þess og stærd, sem er lík lítillri flatri peru.

2) Ad þad deilist í 3 parta, nefniliga: hinn effsta og breidasta enda, er kallast módurbotninn; hid mjórra midbik, er liggur milli botnsins, og samskeyta módurskeidarinnar, og kallast módurlífs bolurinn; hinn nedsta og mjósta enda, ad þyckt sem litla fíngur, hér um þumlúngs lángann, liggur hann innan í módurskeidinni, snýr fram ad ísbeininu, og kallast módurhálsinn; á honum er eitt tillokad þver-op, kallad módurmunni, hversvegna sá nedsti endi skiptist í 2 varir, hina fremri og aptari.

Módurlífsins innvortis hol er þríkantad, og verdur ad einni holri pípu, er endast í módurmunnanum.

3) Þess sérligu legu, sem er á snid til í skálinni, svoleidis: ad botninum hallar ad kroßbeininu, og módurmunninn liggur framá vid, undir boga ísbeinsins.

---

Hvad er athugaverdt um módurlífid fyri medgaungutímann?
Hvernin er þad lagad, og hvad stórt?
Í hvada parta adgreinist þad?
Hvernin liggur módurlífid eginligast?

Merk: Hjá þeim sem børn hafa alid, hverra móðurlíf er ádur útþanid af barnburdi, er móðurlífid allt stærra; móðurhálsinn styttri, breidari, þykkri, flatari og linari; varir móðurmunnans jafnlángar og gapandi, stundum ójafnar, og eins og þær séu sundur sprúngnar, þartil þær, med ellinni, aptur samankiprast, hardna og verda minni. Um þad leiti ein stúlka ætlar ad fá, edur hefir fengid sínar tídir, verdur móðurhálsinn nockud þykkri og linari, og móðurmunninn opnari, gégnum hvern mánada hreinsunin skédur.

## §. 19.

Um medgaungutímann umbreytist móðurlífsins stærd, mynd og lega:

1) Móðurlífsins stærd umbreytist í medgaungunni, sem er 40 vikna tími, svoleidis: ad þad dagliga vex og spennist lengra uppeptir qvidnum, fram hjá øllum þørmunum, allt upp undir hiartagróf (svo heitir holan nedan undir bríngspølunum). Þeßi vøxtur móður-

---

Hversu mismunar móðurlífit í þeim sem barn hafa alid?

Fer þad nockud eptir mánadatídunum?

Hvernin umbreytist móðurlífit um medgaungutímann?

lífsins framfer í fylgjandi ordu: í þeim þridja mánudi nær módurbotninn rétt upp yfir ísbeinid; í þeim fimta midt ámilli ís-beinsins og nablans; í þeim sjøunda upp undir nablaun í hjartagrófina; í þeim níunda sígur hann nidur aptur, stendur meir fram, og gjørir eins og þverghýptann skall fyri nedan nablann.

2) Módurlífsins mynd, og innvortis þrí-kantada hol, umbreytist smámsaman og líkist nær því einu eggi, skédur þad á fylgjandi hátt: tveir þeir efstu partar módurlífsins, botninn og bolurinn, sem eru lausastir í sér, og mest svampartadir, eru einúngis sá hluti módur-lífsins, sem útvídkast, stækkar, verdur hnøttótt-ur og stendur úti lífid sem kúla, í þeim fyrstu fimm mánudum; ad þeim lidnum, tekur móð-urhálsinn og svo til ad vídkast, hans inn-vortis hol þenst med lángsemi frá ofanverdu nidureptir, og verdur æ styttri til enda hins sjøunda mánadar, þá hann ad mestu er ord-inn eins mjøg útþaninn, sem sjálft módur-lífsins hol. Módurlífsins nedsti partur finnst um þad leiti útspenntur, kringlóttur,

---

Hve lángt og í hverri ordu vex þad uppeptir?

hnøttóttur og mjúkur átektum í módurskeid-
inni, jafnvel þó módurmunninn enn þá sé
þyckur, þrútinn, tilluktur, og líkur á ad
þreifa einu hunds trýni. Frá þeim sjøunda
mánudi til hins níunda, þynnist og út-
spennist hinn hnøttótti módurháls meir og
meir, þar til módurmunninn, er átektum
var sem hardur hugur, styttist mjøg svo,
fletst út, opnast og sléttist ad sídustu aldeilis út.
3) Módurlífsins almenna lega umbreytist á
þann hátt, ad þad vegna eggsins þýngsla
sígur þá tvo fyrstu mánudi dýpra nidur í
módurskeidina, móts vid útgáng skálarinnar
en sídan, vid enda hins þridja mánadar,
hefst þad aptur upp yfir hid efra op skálar-
innar, jafnódt og þad stæckar meir og meir,
og kémst umsídir eigi lengur fyrir í skál-
inni. Þess sérliga lega umbreytist smám-
saman milli þridja og níunda mánadar frá
legu þeirri, er þad hafdi fyri barnburdinn,
á þann hátt: ad módurbotninn, er jafnt og
þétt færist fram og upp yfir hinn fremra

Hverju umbreytist módurlífsins mynd og inn-
vortis hol?
Hvernin umbreytist módurlífsins almenniliga lega?

barm skálarinnar, liggur í seinasta mánudi med sitt midbik rétt upp yfir midpúnkti þess efra ops; módurmunninn færist þar ámót lengra ábak aptur, móts vid þad helga bein. Orsökin til þessa er sú ádurnefnda gnípa krossbeinsins, er skagar fram í skálina; þrýsting innýflanna bak til á módurlífid; sá mjói barmur skálarinnar ad framframanverdu; qviðurinn, er svo ljúfliga géfur eptir; og eggsins þýngd og regluligur vøxtur.

Stundum umbreytist eigi módurlífsins stærd, mynd, né lega, um medgaungutímann á hér sagdann hátt, hverki í tilliti til tíma edur ordu, géfur slíkt orsök til hinna ófullkomnu fædínga, er þvílíkt óregluliga útvídkad, edur svo kallad skakt módurlíf til leidar kémur, og sídar mun ként verda.

§. 20.

Í fædíngunni umbreytist módurlífsins mynd, lega og stærd, af þess efra hluta hvidóttu og voldugu samankiprunum, og þar eptirfylgiandi sárindafullu undanláti og útþenslu

Hvenær og hversu umbreytist þess sérliga lega?
Hvad er orsök til þessa?
Tekur módurlífid jafnan þvílíka umbreytíngu um medgaungutímann?

þinns nedra hluta. Módurskeidin, blygdunin og haptid teygiast, lengjast og opnast jafnt tilsamans med holi módurhálsins.

§. 21.

Strax eptir fædínguna umbreytist módurlífsins hol og stærd, fyrir jafna smámsaman varandi samankiprun, er skédur án sárinda, og lætur sig fyrst og fremst í ljósi í módurhálsinum, sídan í hinum efri pørtum, og seinast, ad nockrum tíma lidnum, í módurmunnanum, hverr strax eptir fædínguna hángir eins og slapandi garnar stúfur nidur í módurskeidina, en ásamt hinum ødrum linu og útvídkudu fædíngarlimum umsídir dregur sig saman, verdur þó alldrei svo þraungur, stinnur né þruckóttur sem fyrr. Undir eins og módurlífid samankiprast, leysist strax klárt rennandi blód frá konunni, er sídan umbreytist til lifra, hveriar á fám døgum lidnum, eptir því sem samkipranin skédur fyrr edur seinna, verda hvítbleikari, og hverfa ad sídustu þegar mód-

---

Hverja umbreytíngu tekur módurlífid í fædíngunni?
Hvernin verdur módurskeidin og blygdunin?
Hvernin umbreytist módurlífit eptir fædínguna?
Hvar kiprast þad fyrst saman?

urlífit hefir, sem því er møguligt, samankiprat sig, og nærri því nád sinni fyrri løgun.

## Um Eggid.

Eins og únginn í fyrstu er innilu̇ktur í egginu, svo er og fóstrid innan í módurlífinu vafid himnuvortudu hýdi, sem hefir líkíngu af eggi, og innilykur fóstrid med þeß vatni.

§. 23.

Þetta mannliga egg samanstendur af útvortis og innvortis pørtum:

Þeir útvortis partar eru himnurnar eda belgirnir (þegar barnid fædist med nockru af þeim á høfdinu og ofan eptir lengra edur skémra, kallast ad þad fædist í sigurkubli), og módurkakan; himnurnar eru tvær, sú innri og ytri, bádar eru þær þunnar og gagnsærar,

---

Hvar sídan, og seinast?
Af hvada pørtum samanstendur eggid?
Hverjer eru þeir útvortis?
Hvad margar eru himnurnar, og hvernin er þeim varid?

einkum sú innri, sprínga og léttiliga þá útþandar eru, edur á þær er þrýst; þær þéna bádar til ad innilykja í sér fóstrid, vatnid, og hin ytri, sem øll er med sína-treslum ad utan, festir eggid vid módurlífid og útgjørir mikinn hluta módurkøkunnar. Módurkakan er linur, flatur og þykkur klumpur, og hinn þykkasti og þéttasti hluti eggsins útvortis parta; hún er meira edur minna krínglótt, þykkust í midjunni, hvar nablastrengurinn liggur inní hana; þynnst ad utanverdu, hvar hún einkanligast festir sig vid módurlífid; sú hennar fløt er útsnýr ad módurlífinu, er ósléttt, sú sem innsnýr, er slétt, vegna belgsins, er umklædir hana heimmegin, þar er hún og full af uppþrútnum ædum, er hlaupa saman í þrjár stórar ædar nidur í nablastrenginn. Módurkakan er áføst vid fóstrid med nablastrengnum, og vid módurlífid med ædum, med sepum þeim, er lafa á hinni ójøfnu hlidinni, og sérdeilis med þeirri sína-ørtudu rønd umhverfis.

---

Til hvers þiena þær, einkum hin ytri?
Hvad skilst fyri módurkøkuna?
Hvar er hún þykkust og þynnst?
Hvernin eru hennar sídur eda flatir ásigkomnar?
Hvar vid er hún áføst?

Hún liggur almennt í móðurbotninum, stundum við hliðarnar og stundum í móðurhálsinum. Hún þénar til að gjöra samgáng milli fóstursins og móðurlífsins, þynna fóstursins blóð, að það þeß liðugar runnið gæti um þeß líkama; og að byrgia til þær opnu æðar í móðurlífinu.

§. 24.

Innvortis partar eggsins eru vatnið, fóstrið og naflastrengurinn.

Þegar himnurnar rifna, rennur út nockurskonar þyckt slímartað vatn, er um meðgaungutímann hefir hiálpað til að þenja móðurlífið jafnt út á allar síður, gefið fóstrinu fría hræríngu, og varðveitt það frá útvortis ofríki og áföllum, er kynnu að hafa giört því skaða.

§. 25.

Fóstrið, sem innan í himnunum flýtr í þeßu vatni, aðgreinist í höfuðið, bolinn og útlimina. Höfuðið er að sínu leiti stærra enn

---

Hvar liggur hún almennt?
Hver er hennar nytsemi?
Hverjer eru eggsins innvortis partar?
Til hvers þénar vatnið?

þeir adrir partar, þeir mjúku partar fóstursins eru sveigjanligir og géfa léttiliga eptir; andlits beinin eru óbifanlig, ad undanteknum nedri kjálkunum og ennisbeinunum, og mjøg brothætt. Hofudskéljarinnar mynd er aflaung og kúpuvaxin, hún samanstendur af tveimur vángabeinum, tveimur gagnaugnabeinum, og einu hnackabeini; þeßi bein eru hræranlig og géta gengid á misvíxl hvert uppá annad, vegna saumanna (svo kallast samkomur hausbeinanna, sem eru líkar krákustig), og hausamótanna, (fontanellernes). Nefndir saumar eru þrír, nefnil.: krúnusaumurinn, er liggur milli gagnaugnabeinanna; pílusaumurinn, er liggur frá nefinu ofan til aptur ad hnackabeininu; vínkilsaumurinn, er liggur ámilli beggja vángabeinanna og hnackabeinsins. Hausamótin eru tvø, hid fremra, edur stærra, sem er ferhyrndt, og hid aptara, sem er minna og þríhyrndt;

---

Hvernin adgreinist fóstrid?
Hvada løgun hefir høfudskélin, og af hvada beinum er hún samsett?
Eru þeßi bein hræranlig?
Hvad skilst fyri saumana?
Hvar, og hvad margir eru þeir?
Hversu mørg, og hvernin eru hausamótin?

høfudid kann hægast samanþryckjast ad bádum hlidum, enn ei lángsetis framan edur aptan frá. Bolurinn edur kroppur barnsins er eigi eins gildur og høfudid, og kann hægast beigjast áfram. Utlimirnir eru brotþættir næsta, og géta eigi beygst utan á vißar sidur; fætur þeckjast frá høndum á hælunum og øklunum.

§. 26.

Naflastrengurinn eda lækurinn, sem gengur frá qvidi barnsins allt í módurkøkuna, er samansettur af ædum og situ nockurri, umvefdum med hinum fyrr umgétnu himnum. Strengir þeir, er mikid hafa af situ þeßari, kallast situstrengir; hinir adrir blódstrengir; auk þeßa kunna ad vera á þeim lyckjur og hnútar. Þegar tvíburar eru fyrir, eru strengirnir optast adskildir; hvert fóstur hefir sína belgi, sinn naflastreng og sína módurkøku, er þó stundum kunna ad vera samangrónar.

---

Hvernveg lætur høfudid sig best samanþryckja?
A hverju þeckjast fæturnir frá høndunum?
Hvernin liggur naflastrengurinn, og af hverju er hann gjørdur?
Hve nafngreinist hann?
Hvad er athugandi vid naflastrenginn og fylgjuna þegar tvíburar eru?

§. 27.

Svoleidis er nú eitt virkiligt egg ásig-komid. Enn til eru einnig følsk egg, er venjuliga kallast mánadarkálfar, kunna þeir og ad vera virkiligir og falskir. Virkiligir mánadarkálfar eru samsettir af himnum og ædum, holir, og fullir med nockurskonar veßa, stundum finnast í þeim bein og holdtægjur, og eru þad leifar af fortærdu fóstri, sem dáid hefir fyri tímann. Falskir mánadarkálfar kallast einnig safn edur samdrættir, og myndast annadhvert af leifum fylgjunnar, sem eptir hafa leynst í módurlífinu, og eru ordnir ad hørdum klumpum ymisliga løgudum, ellegar þeir géta og myndast af lifrudu blódi, holdvøxtum (æxlum), edur af vindi og vatni.

---

Hvad skilst fyri mánadarkálf?
Hvad margslags eru þeir?
Af hverju kémur hverr þeirra?

## Um Barnsþúngann eda þycktina.

§. 28.

Þegar módurlífid og qvidurinn útvídkast af virkiligu eggi, kallast virkilig þyckt, (edur konan virkiliga þúngud, ólétt, barnshafandi), enn útvídkist þau af følsku eggi, kallast følsk þyckt.

§. 29.

Ein virkilig þyckt er náttúrlig, þá eggid liggur innan í holi módurlífsins; einfølld, þá eggid er eigi nema eitt; samsett þarámót, séu þar tvíburar, þríburar edur fleiri egg; og blendin, þá bædi eitt virkiligt og falskt egg eru til samans í módurlífinu.

## Um Ransókunina.

§. 30.

Til ad komast eptir hversu ádur taldir partar, er bædi um medgaungutímann og í fædíngunni hafa hina nánustu samverkan, séu áſigkomnir,

---

Hvad margslags er þycktin?
Hvernin adgreinist sú virkiliga þyckt?

er brúkanligt að ransaka; það er: með hendinni eða fingrunum að fara um og með koninni, og leita fyri sér um þeirra tilstand; þetta kann að ské, í móðurskeiðinni, móðurlífinu, endaþarminum og utan á qviðnum.

§. 31.

Í framqvæmd ransóknarinnar, er þrennt athugandi, nl.: 1) Að sú sem ransakast skal, hafi hagqvæma stillingu; kann hún eptir kríngumstæðum standa, sitja, liggja, eður vera á fjórum fótum. 2) Að sú sem ransakar, eptir áðursögðu, komi sér hentugliga fyrir, annaðhvert að framanverðu, til hliðar, eður bak við konuna, standandi, sitjandi, eður á fjórum fótum. 3) Að brúkaður sé sá rétti máti og handalag að ransaka, hvar sem helst vera skal.

§. 32.

Egi að ransaka í móðurskeiðinni, sem er hinn venjuligasti ransóknarstaður, þá skal

---

Hvar til þénar ransóknin?
Hvar í er hún innifalin?
Á hvaða stöðum skéður hún?
Hvað er athugavérdt í framkvæmd ransóknarinnar?

1) Sængurkonan annadhvert liggja á bakid, hafa hátt undir herduum og dausnum, kreppa vel upp knéu, slá í sundur lærunum, og hafa vidspyrnu vid fæturnar; edur hún skal sitja, utarliga á einum stól, med lærin adskilin, og halla sér aptur á bak; ellegar krjúpa, og stydja albogunum nidur, svo ad kroppnum halli vel fram, setja dausinn vel aptur og halda í sundur lærunum; edur ad sídurstu standa, skal hún þá vera hokin í knjánum, slá út lærunum, en halla hriggnum aptur á bak til veggjar.

2) Skal yfirsetukonan koma sér haganliga fyrir eptir stillingu konunnar, nl. liggi konan, setur hún sig á stól annadhvert framan fyrir, edur á hlid vid konuna; sitje konan, setur nærkona sig framan vid hana á knè, edur á lægri stól; krjúpi konan, nemur nærkona stadar ad baki henni, og standi konan, situr hin ad framan á lágum stól, edur krýpur á knjánum.

---

Hvernin skal haga konunni, þá ransakad er í módurskeidinni?

Hvernin skal nærkona haganliga stilla sig eptir konunni þá hún liggur, situr, krypur á knjánum?

3) Sú regluligasta adferd ad ransaka, er þeßi: yfirsetukonan lidkar vísifingurinn og laungutaungina, ádur smurda í nýrri olíu edur ósölltu smiøri, med gætni inn eptir módurskeidarinnar íbjúga holi, nøglunum og búúnum snýr hún aptur ad hinu helga beini, þá adra fíngur kreppir hún í lófann, en leggur þumalfíngurinn uppá ísbeinid; varast skal hún ad þreyngja fíngrunum offljótt inn, ad ei skaddist hruckur þær, sem eru innan til í módurskeidinni, heldur skal hún, ef þørf krefur, med vareygd þrísta á, edur ýta nidrá vid milligardinum, og med adgætni leita fyri sér um ásigkomulag þeirra innvortis fædíngar parta.

§. 33.

Egi ad ransaka í módurlífinu, svo skal:
1) Konan annadhvert liggja á bakid, edur á hlidina, utarliga á rúmstockunum, og sé þá lagdur koddi ámillum knjánna, til ad halda lærunum vel í sundur; ellegar sitja, edur krjúpa, sem ádur er sagt.

---

Hvernin er ransóknar adferdin yfirhøfud?
Þá ransaka skal í módurlífinu, hvernin skal konan koma sér fyrir?

2) Nærkona skal fyribúast framan vid konuna, nema þegar hún er á fiórum fótum, þá ad baki henni.

3) Adferdin er þeßi: høndin er smurd, allir fíngragómarnir samanlagdir, og høndin gjørd sem mióust verdur ad framan, svo allir fíngurnir í einu, edur nockrir í senn, lidkast kunni inn í módurskeidina, þar til øll høndin, hverrar baki skal snúid aptur ámót enu helga beini, med hægd er innkomin, og henni þrýst edur ýtt upp eptir bugdu skálarinnar, allt til módurmunnans, er sømuleidis med gætni sé sundurlidkadur med fíngragómunum, svo øll hendin kunni loksins ad skadlausu komast inní siálft módurlífid.

§. 34.

Til ad ransaka í endaþarminum, útheimtist:

1) Ad konan sé annadhvert liggjandi á hlidina, med dausinn utarliga á sænginni, ellegar á fjórum fótum, med dausinn vel aptur á bak.

---

Hversu skal nærkona fyribúast?
Hvernin er siálf adferdin?
Hvernin skal konan stillast þá ransakad er í endaþarminum?

2) Ad yfirsetu-kona nemi stadar framan fyri konunni, ef hún liggur, en bak vid hana, sé hún krjúpandi.

3) Ad sú rétta adferd brúkist, sem er þeßi: þegar endaþarmurinn er vel tæmdur med einni stól- edur klyster-pípu, smyrjest vísifíngrinn og lidkist med vareygd inní þarfagánginn, eptir því boginn, sem þarmurinn liggur, til ad skoda þá parta, eptir hverra innvortis ásigkomulagi skal greunslast.

§. 35.

Vid útvortis ransókn á qvidnum

1) Er konan optast nær látin liggja á bakid, lágt med herdarnar, en hátt med mjadmirnar, og lær og fætur vel adskilin; ellegar sitja og halla sér aptur á bak.

2) Nemur nærkona stadar ad aptan edur framanverdu vid konuna, standandi edur sitjandi.

3) Brúkast fylgjandi adferd: þegar þarmarnir, á undan, eru hreinsadir med stólpípu, leggur nærkona flata jafnvel og kalda hendina

---

Hversu skal nærkona haga sér?
Hver er ransóknar adferdin?
Hvernin skal konan vera þá ransakad er á qvidnum?

á milli naflans og ísbeinsins, þreifar svo hægt um qvidinn, enn konan heldur á medan nidri sér ondinni.

§. 36.

Ransóknin brúkast: án þess kona sé barnshafandi; þegar hún er ólétt; í fædíngunni; og eptir fædínguna.

Án þess kona sé barnshafandi, þénar hún:

1) Til ad þeckia hinna útvortis fædíngarlima náttúrliga og regluliga ásigkomulag, hvarvid menn í sjón og raun undir eins verda áskynja, hvert þeir hafa sína réttu skøpun, stinnleika, þreyngsli, vidkvæmni og rósrauda farfa at innanverdu. Þénar tédra parta fullgiørligleiki einni nærkonu til ad dæma um, ef þørf krefur, hvert ein kvensvipt er óspillt, því hafi fædíngarlimirnir nockurn skort fyrr uefndra eginligleika, géfst efi um hennar meydóm, nema limirnir séu, einhvern tíma

---

Hvernin hagar nærkona sér?
Hvenær og í hverjum tilfellum má brúka ransóknina?
Sé konan ei ólétt, til hvers þénar hún þá?

ádur, af sjúkdómum eda ødrum tilfellum úr lagi gengnir.

2) Til ad þeckja hvert fædíngar limirnir, af nockurri útvortis makt edur ófriki, séu útvídkadir og skaddadir, því þá finnast þeir sárir, útþandir, bólgnir, og blódugir, ef skadinn er nýliga tilfallinn, hvar um ein yfirsetu kona má vita skýrslu ad géfa, svo framt grunsemi á leikur, ad stúlkunni hafi naudgad verid, og hinnar vitnis sé þar um leitad.

3) Til ad þeckja og dæma um, hvert ein hefir ádur fædt, sem þar af þeckist, sé þad nýliga skéd, ad módurmunninn hángir ofan í módurskeidina slapandi og útvídkadur; ad þeir ytstu fædíngar limir eru þrútnir og blódugir; og ad brjóstin eru full af mjólk. En sé nockud lidid frá fædíngunni, þeckist þad af hruckum qvidarins; af því ad brjóstin eru lin; haptid burtu rifid, og módurmunninn óveniuliga þrútinn, flatur, opinn og minna ávalur.

---

Hvar af dragast líkur, ad ein sé krenkt?
Hvar af má ráda, ad einni stúlku hafi verid naudgad?
Af hverju má dæma hvert ein hefir ádur fædt?
En sie nockud frá lidid, hvar af þeckist þad þá?

4) Til ad þeckia þá siúkdóma og galla, er mæta kunna í hinum ytstu fædíngar linium, móðurskeidinni, módurlífinu, blandblødrunni, endaþarminum, qvidnum og milligardinum.

§. 37.

Um medgaungutimann brúkast ransóknin:

1) Til ad komast eptir, hvert ein sé virkiliga ólétt; er best þeckist af því, ef módurlífid er sigid nidur í módurskeidina, átta eda níu vikum eptir gétnadinn; tídirnar um sama skeid tepptar; módurlífid undire ins hnøttótt átektum, og fullt med eitthvad bakatil, þeim megin er snýr ad endaþarminum; stígi módurlífid sídan, mót enda hinns þridja mánadar upp aptur, svo botninn, er ádur seyg nidur, finnist rétt fyrir ofan ísbeinid, og módurmuninn hafi færst lengra aptur og upp í skálina; sé þyckt qvidarins samfara hinum jafna vexti módurlífsins upp undir naflann, ad lidnum þremur mánudum; og loksins, finnist utan á qvidnum, ad fóstrid hræri sig, hér um í tíundu viku medgaungutímans; þá er víst ad konan er ólétt.

---

Til hvers brúkast ransóknin um medgaungutímann?

Hvar af þeckist, ad kona sé virkiliga ólétt?

Merk: Öll önnur merki til barnsþúnga, svosem: tíðateppa, qvidarins vaxandi þyckt, og ymislig veikinda tilfelli eru óviß og brigdul, þar þau getur leidt af ödrum orsökum, séu eigi hin ádur upptöldu samferda.

2) Til ad dæma um, hversu lengi ein kona hefir gengid med; sem þeckist af módurbotnsins mismunandi hæckun og vexti; af módurlífssins nedstu parta umbreytingu; og af fósturssins vaxandi þyngslum.

*a*) Af módurbotnsins mismunandi hæckun og vexti; er soleidis framfer optastnær, ad í þeim fjórda mánudi finnst hann litlu ofar enn lífbeinid, í þeim fimmta milli lífbeinsins og naflans, í þeim áttunda upp í hiartagrófinni, í þeim níunda meir skagandi og siginn til baka nidur undir naflann.

*b*) Af umbreytingu módurhálsins og módurmunnans; nedsti partur módurlífssins sígur nidur undir milligardinn í þeim ödrum mánudi; togast upp aptur í hinum þridja og horfir ámóti því helga beini; módurháls-

---

Af hverju má ráda hvad lengi ein hefir gengid med?

Í hverri ordu hæckar og vex módurbotninn?

inn er ad finna nockud útvídkadur og stærri í þeim sjötta; styttri, linari, og rétt krínglóttur í þeim sjöunda; þunnur og flatur, eins og breidur hríngur, í hinum níunda, og hjá sumum med krínglóttu opi.

c) Af fósturfins vaxandi þýngd; þar um má grenslast med því móti, ad þrýsta fíngrunum inn í módurskeidina, á hinn nedsta hluta módurlífsins, undir enda hins sjötta mánadar, finna menn þá, ad fóstrid hræríst í vatninu, milli handanna, þeirrar er løgd er á qvidinn ad utan, og hinnar, hverrar fíngur eru í módurskeidinni. Eptir þann sjöunda mánud liggur þad þéttara ofan yfir módurmúnnanum, og ad sídustu nærri því óbifanligt.

Merk: Eingin kona kann med nockurri vissu ad telja frá tíma gétnadarins, teppu klædafallanna, nie hræríngu fósturfins, fylgist ei hin ønnur kénniteikn med.

3) Til ad þeckja falska barns-þyckt; hverju trúa má, verdi þess vart, ad qvidurinn þyckni of fljótt og óreglúliga, meira á þverveginn, enn upp og ofan; ad naflinn

---

Hve umbreytast nedstu partar módurlífsins?
Hve má af fóstrinu marka medgaungutímann?

tútni eigi út á fimmta mánudi, heldur sé venjuliga innsockinn; ad módurmunninn sé lengi óumbreyttur; ad blódlát uppá falli, og fædíngin vilje ské fyri tímann; ad fóstrid hræri sig eigi á réttum tíma; ad brjóstin verdi lin, hángandi, og gési af sér vatnsblandada mjólk.

§. 38.

Í fædíngunni brúkast ransóknin til ad komast eptir módurlífsins og fósturfins legu; hvert fóstrid sé lifandi, daudt edur veikt; hversu vegir fædíngarinnar séu áfigkomnir, hvert fædíngin sé byrjud, og hvert hún gángi regluliga.

§. 39.

Eptir fædínguna sýnir ransóknin á qvidnum, hvert þar er einúngis eitt edur fleiri børn, og hvert módurlífid kiprar sig saman; og af ransókninni í módurlífinu fá menn undir eins ad vita, hvar módurkakan er vidgróin.

---

Hvar af þeckist sú falska þyckt?
Til hvers brúkast ransókn í fædíngunni?
Hvar til þénar ransóknin eptir fædínguna?

# Um fædíngar yfir höfud.

§. 40.

Fædíngin er sá adburdur, þegar fóstrid og fylgjan, bædi med tilstyrk hinnar fædandi eigin krapta, og annara manna adstod, færist í gégnum vegu fædíngarinnar út af módurlífinu.

§. 41.

Almennast skédur og orsakast vidburdur fædíngarinnar af módurbotnsins og módurbolsins øblugu samanspenníngum, hvar til einnig hjálpa eins kreptugir samandrættir í milligardsinum, og hinum ytri pertum, er yfirklæda búkinn, og valda mjøg nidurþrýstíngunni; vid þenna samanspenníng, þrýstist allt þad sem er innan í módurlífinu, nidur í módurhálsinn og módurmunnann, hverjer seinast í medgaungutímanum eru svo þynntir og veiktir ordnir, ad þessvegna megu láta undan, og opnast hvad af hverju, svo fóstrid, og annad lausligt í módurlífinu, fái komist út um vegu fædíngarinnar. Séu nú þessir samandrættir módurlífsins ofveikir, edur mótstada módurmunnans og fæd-

Hvad skilst fyri fædínguna?
Hvør er orsøk til Fædíngarinnar?

íngarlimanna hins vegar offterk, þá getur fædíngin eigi framqvæmst án mannligs tilstyrks.

§. 42.

Þegar nú módurmunninn og hinir nálægustu partar, teygjast og útvídkast af eggsins nidurþryckíngu, er orsakast af ádurnefndum samandrætti módurbotnsins, koma sárar þjáníngar í qvidinn, sem kallast hrídir, jódsótt edur léttasótt.

§. 43.

Séu þetta réttar og sannar hrídir, eru þær í fyrstu stuttar, og lengi ad koma, halda upp ámilli, en verda sídan meir og meir þeckjanligri, sterkari, lángvaranligri og meir hradfara, gésa sig helst til kynna yfir um bakhlutann, lsbeinid, og innan til í skálinni.

§. 44.

Stundum koma og sárar þjáníngar, í qvidinn, er eigi orsakast af teygíng né útvídkun módurmunnans, kunna þær at merkjast endrar nær, ádur enn fædíngar tíminn er kominn, þeßar kallast falskar hrídir.

---

Hvad skilst fyri hrídir?
Hvernin eru þær réttu og sønnu?
Hverjar kallast falskar?

§. 45.

Þar hinar følsku hrídir slýta ecki fædínguuni, meiga þær vel adgreinast frá þeim réttu. Þær réttu þeckja menn þannig:

1) Byrja þær med sárindafullum streng frá naﬂanum, er liggur yfir um lendarnar, nemur stadar, og verdur hvad sterkastur í skálinni og umkríng ísbeinit.

2) Svara þær, í øllum greinum, til samandráttar módurbotnsins, er finnast kann ad utanverdu á lísinu; svo ad: eptir því sem samandrátturinn byrjast, kémur med køstum verdur tídari, lángvarauligri, sterkari, og at sídustu vidvarandi, eptir því byrjast hrídirnar, koma med kvidum, vaxa og vidvara; og þegar samdrættir módurlífsins eru óregluligir og ójafnir, verda hrídirnar sømuleidis óregluligar og ójafnar.

3) Orsaka þær hmsar umbreytíngar, meiri útþénslu og þreyngsli á módurmunnann, belgina og fóstrid, hvar af þær einnig gløggliga þeckjast.

§. 46.

Falskar hrídir þar á mót þeckjast af því:

---

Af hverju þeckjast þær réttu hrídir?

1) At þær hverki byrjast né framfara í sömu ordu sem hinar réttu, heldur koma þvert yfir um lísid, edur annarstadar, hvar eigi byrjar, og þat uppá allann annann máta enn hinar réttu eru vanar ad láta sig merkja.

2) Ad þær aldeilis einga umbreyting verka, né þreyngja ad módurmunnanum, þrýsta ei heldur á fornistid, né þryckja nidur fóstrinu, af því þær orsakast ecki af samandrætti módurbotnsins.

3) Ad þær optast nær linast edur hverfa eptir stólpípu, og lángt önnur medöl enn þær réttu.

Merk: Jafnvel þó bædi rét'ar og falskar hrídir kunni ad fylgjast ad, er þó hægt af ádurfögdu, ad þeckja þeirra mismun.

§. 47.

Hinar réttu fædíngar hrídir kallast regluligar edur fullkomnar hrídir, þegar þær smámsaman og hvád af hverju aukast, verda tídari, lengri og sterkari. Oregluligar og ófull-

---

Hvernin þeckjast hinar fölsku?
Séta hverutveggju fylgst ad?
Eru þær réttu fædíngar hrídir margslags?
Hvenær kallast þær regluligar edur fullkomnar?

komnar kallast þarámót þær, er eigi vaxa med þvílíkum træppugángi og ordu, sem hinar, minka heldur, ellegar láta lángt á milli, mót venju, og jafnvel aldeilis hverfa burt, án þess ad fædíngin, fyri þeirra styrk, framqvæmist regluliga, og á réttum tíma.

Merk: Þessar ófullkomnu hrídir eru eingandveig- inn falskar, því þó eigi komi þær svo ódt og tídt, hver á adra ofan, valda þeim þó virkiligir samandrættir módurlífsins, hverjer, vegna þess þeir ei fara svo regluliga ad, sem þeim byrjadi, ecki heldur útvídka módurmunn- ann svo sterkliga, né þenja hann svo regluliga í sundur, og kémur þar af óreglan í þessum þreyngsla- og sárindafullu hrídum.

§. 48.

Þær réttu hrídir hafa, auk þessa ymis- lig nøfn, eptir því sem þær eru hardar, og eptir þeim tíma í fædíngunni, á hverjum þær uppáfalla; svo sem:

1) Þær sem uppá koma í sídasta mánudi med- gaungutímans litlu á undan fædíngunni, kallast fyrivarar, plockhrídir edur bodarar, því þær boda fædínguna nálæga.

---

Hvernin eru þær óregluligu og ófullkomnu?
Eru þær eigi falskar?
Hvernin nafngreinast hinar réttu hrídir?

2) Þær sem byrja fædínguna, þenja ad marki og opna módurmunnann, kallast smáhrídir edur byrjarar.

3) Þær sem kroptugliga hjálpa til fædíngarinnar framgángs, kallast þær réttu fædíngar hrídir.

4) Þær sem fullenda fædínguna, kallast skjálfandi hrídir.

5) Þær sem leysa fylgjuna, kallast eptirhrídir.

Merk: Allar þeßar hrídir mismuna eigi, utan í tilliti til þeß, hvad þær fara vaxandi, og eru hægar eda sterkar, og er þad eingi veruligur mismunur.

§. 49.

Eins og hrídirnar adgreinast í tilliti til þeß, hvad þær vaxa meir og meir, svo adgreina menn og þá regluligu fædíngar vidburdi eptir hrídunum, og eptir umskiptum þeim, er þaraf fljóta, í fimm ólík edur adgreind tímabil.

Þad fyrsta tímabil inniheldur hin þeck.

---

Hvad skilst fyri fyrivara? smáhrídir? og réttar fædíngar hrídir?
Hvad skilst fyri skjálfandi- og eptir-hrídir?
Í hverju er allra þeßara munur innifalinn?
Hvernin adgreinast vidburdir fædíngarinnar?

jaunligu umskipti, sem framfara í seinustu tíd medgaunguttímans, litlu fyri fædíngunna, og orsakast af módurbotnsins byrjada, og enn nú hæga samandrætti.

Þessar umbreytíngar eru:

1) Ad qvidarins þyckt sigur meir og meir nidur og fram ámóts vid naflann.

2) Fyrivara hrídirnar (§. 48.) koma helst ámóti kvøldi.

3) Konunni finnst sem sér verdi opt mál ad láta þvagid, sama er ad segja um hægdir til baksins.

4) Slímid í módurskeidinni verdur seigara, ysirsljótanligra, og ad sídustu nockud blódblandad.

5) Fædíngarlimirnir og fæturnir þrútna hastarliga.

Merk: Allar þessar umbreytíngar eru þessvegna merki þau, er boda nærveru fædíngarinnar, því módurhálsinn er um þad leiti hvad mest útvídkadur, stuttur og kúluvaxinn, módurmunninn er

---

Hverjar umbreytíngar koma fyrir í því fyrstu tímabili?

Af hverju orsakast þessar?

Hvad gésa þær til kynna?

ysrid þunnur, nærri því sem pappír, og stundum svo opinn, ad forniſtid er audfundid í gégnum hann.

§. 50.

Þad annad tímabil innibindur þær umbreytíngar, er auglýsa sig þegar fædíngin þeckjanliga er byriud; og eru þær þeßar:

1) Fyrirvara-hrídirnar breytaſt, og verda ad þeim eginligu smáhrídum, sem eru sárari, þreyngja med meira abli ad egginu, og valda því, ad konan má lengur halda nidri í sér ondinni.

2) Finna menn utan til, ad módurbotninn verdur med køſtum hardur, ſtinnur, og dregur sig merkiliga saman.

3) Einnig er audfundid innan til, ad varir módurmunnans teygjaſt, þynnaſt og útvídkaſt meir og meir í hrídunum, en linaſt og verda ſlapandi undir eins og þeim vægir.

4) Streingiſt, þenſt og uppfylliſt belgurinn af vatninu í hrídunum, og þrýſtiſt sem ſleygur nidur í módurmunnann, kallaſt þá ad forniſtid finniſt, en þad linaſt aptur milli hrídanna.

---

Hvada umbreytíngar innihelldur þat annar tímabil?

5) Samanþryckist fóstrid í hrídunum, og leitar jafnótt lengra og lengra áfram, og því meir sem høfudid preßast framm í op skálarinnar, því meir gánga høfudbeinin á misvíxl, í saumunum og hausamótunum, hvar af skinnid þruckast í fyrstu, enn verdur sídan ad krínglóttum, fløtum og hørdum þrota á barnsins høfdi, medan hrídirnar og nidurþrýstíngin vidvara.

Merk: Þeßar umbreytíngar eru því merki þau, hvar af þeckist ad fædíngin nú sé fyrir alvøru byrjud.

§. 51.

Þad þridja tímabil yfirgrípur þær umbreytíngar, sem uppkoma þegar lengra lídur á fædínguna; og eru þær þeßar:

1) Ad hrídir þær, er ádur byrjudu fædínguna, og vóru hægar, stuttar, og eigi svo tídar, verda nú heiptugri, tídari, lángsamari, þreyngíngarfyllri og sárari; sú fædandi verdur órósamari, hennar ædasláttur, líkama hiti, andlits rodi, og hardúdigt útlit fara vaxandi; hún heldur lengur nidri sér andinni;

---

Hvad géfa þeßar til kynna?

Hverjar umbreytíngar innihelldur þad þridja tímabil?

hennar raust, er í upphafi var dimm, og eins og rembíngs full, breytist smámsaman í hærri og lángsamari hlióð.

2) Að móðurmunninn er svo opinn og útvíðkaður, að hann gjørir eins og hríng eða krans umkríng barnsins høfuð.

3) Að forniftið er kyrt utan fyri móðurmunnanum, og hjaðnar eigi að afstøðnum hríðunum.

4) Að høfuðið er nú allareiðu, í gegnum það efra op, niðurpreßað í bugðu hins helga beins.

Merk: Af þeßum umskiptum sjá menn fæðíngarinnar framgáng.

§. 52.

Það fjórða tímabil inniheldur þær umbreytíngar, er auglýsa sig við enda fæðíngarinnar; og eru þeßar:

1) Að hríðir þær sem framfylgja fæðíngunni, umbreytast í svo kallaðar skjálfandi hríðir, eru þær hinar heiptugustu, straungustu, og koma án minnstu biðar hver á fætur annari, titra þá knén, líkaminn allur skelfur, án kulda,

---

Hvað ráðá menn af þeßum?

Hverjar umbreytíngar inniheldur það fjórða tímabil?

andlitid bloþar af hita, svitinn pípir út, konan kastar upp, og raust hennar umbreytist í skjálfandi, nýstandi, og rétt ædiligt, edur örvínglunar óp.

2) Ad módurmunninn er tilfulls útvídkadur.

3) Ad fornistid sprýngur, og vatnid sem innan í því er, utan um höfud fóstursins, streymir burt allt í einu.

4) Ad slímid í módurskeidinni verdur blódmeingad, hvar af kémur ordtakid um þær er fyrsta sinni fæda, ad þær teikni.

5) Ad hinir ytstu fædíngar limir, ásamt milligardinum, haptinu og endaþarminum, taka til ad þenjast, teygiast og vídkast út, af fóstrinu, sem þryckir og útspennir þá.

6) Ad fóstrid umsídir preþast nidur í hid nedra op skálarinnar, og því skýtur fram undan boga ísbeinsins, þángad til þad, ásamt vatni því er eptir var, med hardri ferd, þýtur út af módurlífinu.

Merk: 1) Af umbreytíngum þeþum er audrádid, ad nálgast endir fædíngarinnar. 2) Þeþi adgreindu tímabil eru mislaung; hid fyrsta er lengst, og hin önnur eptir röd sinni æ styttri og styttri; ecki fylgja tédar umbreytíngar hver

---

Hvád er ad ráda af þeþum umbreytíngum? Í hverju misMuna nefnd tímabil?

annari í óregluligum fædíngum, rídur því á í hverri fædíngu, ad athuga þær þeß betur, sem þær áqvarda mismun fædínganna.

§. 53.

Pad fimmta tímabil nær frá enda fædíngar, til þeß ad fylgjan er komin, edur greiddur hagur konunnar. Í þeßu tímabili byrja, ad afstadinni stundar ró, styttri, vægri og ósárari eptirhrídir, er koma med køstum og vægja á milli, valda þar ad auk 1) nockurskonar hægari nidurþrýstíngu, 2) nyrri spenníngu og útvídkun í hinum samankiprada módurhálsi, og 3) fylgjunnar lángsamri lausn og færslu nidur í módurskeidina, hvar vid fædíngin er á enda kljád.

§. 54.

Hversu háttad verdi fædíngunni, edur hennar útfalli, kémur uppá 1) ásigkomulag þeirra hørdu og mjúku fædíngar lima. 2) Módurlífsins hmisliga legu, útvídkun og samandrátt í fædíngunni. 3) Fósturfins misjøfnu legu og stærd. 4) Hrídanna ýmisligleika, og 5) þau

---

Eru þeirra umbreytíngar jafnan reglubundnar?
Rídur nockut á ad adhuga þau?
Hvernin takmarkast þad fimmta tímabil?
Hverjar umbreytíngar koma þar fyrir?

margvísligu tilfelli, er í fædíngunni kunna uppá ad koma. Nefndu fimm pósta byrjar náqvæmliga ad athuga í øllum fædíngum, til ad géta dæmt um þeirra ásigkomulag og mismun; svo sem sídar mun sýnt verda vid hverskyns fædíngu út af fyri sig.

---

## Um fædíngar-hjálp yfir høfud.

---

### §. 55.

Fædíngar hjálpin á heima í hvílíkum tilfellum:

1) Hvar fædíngin er svo hættusøm, ad annadhvert sú fædandi edur fóstrid kann ad bída skada af, sé hún látin ráda sér sjálf.

2) Hvar fædíngin med sitt eindæmi getur eigi framqvæmst.

### §. 56.

Skylda einnar nærkonu er almennt vid allar fædíngar ad athuga fylgjandi høfudparta,

---

Uppá hvad kjemur einkanligast útfall fædíngarinnar?

Af hverju má sjerílagi dæma um fædínganna ásigkomulag og mismun?

J hvada tilfellum á fædíngarhjálpin heima?

nefn il.: 1) Ransóknina, 2) undirbúnínginn, og 3) adbúnadinn.

§. 57.

Ransóknin má gánga á undan, og ítrekast aptur og aptur, bædi í og ámilli hrídanna, svo menn af ásigkomulagi 1) módurlífsins, 2) fósturfins, 3) fædíngar veganna, 4) hrídanna, og 5) af þeim sérligu umbreytíngum og uppáfallandi tilfellum bædi fyrir og í fædíngunni, þeckt fái hina ýmisligu adferd og vidburdi fædíngarverksins.

§. 58.

Fyrir undirbúnínginn skilst hvad eitt, er vera skal á reidum höndum til hægdar og þurftar hinni fædandi, fóstrinu, og yfirsetukonunni sjálfri, bædi í og eptir fædínguna; hér til heyrir:

1) Eitt hentugt fædíngar-flet, sæng edur stóll (er tekr nafn af nærkonu, og kallast yfirsetu-konu-stóll); vera skal þad hvert um sig

*Hvad er ein nærkona skyldug ad athuga almennt og í öllum fædíngum?
Hvenær skal ransóknin fyritakast?
Hvad til þénar hún?
Hvad skilst fyrir undirbúnínginn?
Hvad heyrir til hans framar?

nógu lángt, sterkt og hátt, med vidspyrnum til fóta, og handgripi edur létta ad halda í; sængin er uppbúin med nockurnveginn hardtrodnum dýnum, einkum þar sem mjadmirnar skulu hvíla á, ofan á undirsænginni skal fyri rækslu sakir leggja lánga reckjuvod, er hánga skal aptur úr sænginni, svo hún verdi breidd ad nedanverdu uppá konuna. 2) Klædnadur konunnar; er vera á léttur og rúmur, helst um lífid, og ecki of heitur, hún má og vera klædd í hrein nærføt. 3) Fæda hennar; er vera skal þunn, súr og vatnsbløndud, svo sem hafra-, bygg-, hrís-, perlu-, manna-, sagó-grjóna og kirsiberia súpur, med ediki, sýru edur citrónsaft blandadar; eingi megn matur, ecki vín, mjød, brennivín nè kaffe. 4) Húsid, er vera skal hófliga heitt, ecki ofbjart, þó svalt, edur þanuig, ad þar sè frjálst og hreint lopt; konunnar sinni og líkama skal, svo sem møguligt er, halda í ró og spekt. 5) Skal sjá til, ad konan hafi regluligar hægdir til baks og qvidar, sè þad eigi, má henni setja stólpípu, ádur enn høfud barnsins

---

Hversu skal eitt fædíngar slet vera umbúid?
Hversu skal klædnadur konunnar vera ásigkominn?
Hverrar fædu má hún neyta?
Hvernig skal vera ásigkomid í húsinu?

er komid ofan í skálina, skal þarí brúka hafra seydi, nockud af sallti og púdursykri, med litlu af olíu edur smjøri, svo endaþarmurinn hreinsist, og vindarnir fái útgáng; þvagid sær hún látid, krjúpi hún á kné, leggi sig áframm, enn yfirsetukona láti sína 2 fingur inní módurskeidina, hyti fósturins høfdi lítid uppá vid frá ísbeininu, þrýsti þad svo sterkt ad blødrunni, ad þvagid géti eigi runnid. 6) Þeim sem blódríkar eru, og hafa fullann og sterkann ædaslátt, edur eru allt of vidkvæmar í hrídunum, má slá æd, og láta blæda hér um þrjá eda fjóra thekoppa. 7) Barnssængin (sú er konan er løgd í þá barnid er komid) skal vera slétt og vel upp reidd, þó ei med of heitum rúmføtum, undir línlakid eda reckjuvodina má leggja skika af vaxdúki, þycku grófu lérepti edur boldángi, sem tekid getur ámóti raka og slagníngi, svo hin føtin skémmist ecki þaraf; hér á ofan leggist tvø eda þrjú línløk eda reckjuvodir, svo eitt eptir annad verdi dregid undan konunni, án þess ad hreyfa hana, mikid í fyrstu; eigi má sængin heldur køld vera

---

Er naudsynligt ad konan hafi hægdir?
Hvad skal brúka til stólpípunnar?
Hversu má hjálpa konunni til ad láta þvagid?
Hverjum má blód taka?

þá konan skal í hana leggjast, og þegar hún er løgd í hana, skal halda á henni jøfnum temprudum varma, og eptir kríngumstædum breida ofan á hana létt brekan, edur brúki hún ysirsæng, þá ad hyta sydrinu edur hrysta þad nidur til fótalags. 8) Bindi eitt til ad vefja um qvid og brjóst konunnar, med nockrum þar til tilbúnum urtapokum, skal til reidu hafa, má og þartil n'yta eitt handklædi edur líndúk, er sé svo lángt, ad tvívafid verdi yfir um lífid, og svo breidt, ad nái frá brjósti nidur undir mjadmir.

Hvad sjálfri, nærkonu vidvíkur, skal hún: 1) Hafa þrjá, mest fjóra, medhjálpendur, einn vid hvert kné konunni, einn vid høfud og herdar, og einn til ad rétta ad sér hvad hún med þarf. 2) Sjálf má hún hafa svo mikid rúm og hægd, ad hún, án þess ad þvínga sig edur beygja um of, géti framqvæmt þad henni byrjar. 3) Skulu neglur hennar vera næmt afskornar; hún má hafa vid høndina olíu edur ósaltad n'ytt smjør, til ad smyrja med fíngur sína edur hønd, er færast skal inní

---

Hvernin skal barnsængin vera uppreidd?
Hvernin skal lífbindid vera?

móðurskeiðina, eður móðurlífið, einnig hrein línlök og klúta, samt heitt vatn til að þvo sér í, og verma sig, ef henni er kaldt á höndunum.

Handa fóstrinu skal hún hafa til reiðu: 1) Rýur til að taka við því í. 2) Heitt og kaldt vatn, og eitt trog til að þvo og lauga það í, eður sé það veikt, þá að skýra það úr, ef nauðsyn krefur. 3) Eitthvað sterklugtandi, svo sem raudan lauk eður höfuðvatn, að bregða að nösum þess. 4) Vín, brennivín eður öl, til að spýta í munn þess, og þvo slímið af líkamanum. 5) Naflabandið, hvert hún gjörir af fjór- eða sex-földum, jafnþættum, sterkum og grófum þræði, með hnúti á báðum endum, og hér um ½ al. laungum, slík bönd egu að vera þrjú eða fjögur við höndina, sé þar fleiri enn eins barns að vænta. 6) Velbeitt skjæri, breiðoddud, til að klippa sundur naflastrenginn, eptir það búið er að binda fyrir hann.

---

Hvað skal nærkona hafa til reiðu fyri sjálfa sig?
Hvað helst skal nærkona hafa til reiðu handa fóstrinu?
Hvernin skal naflabandið vera gjörðt?

§. 59.

Fyrir adbúnad skilst allt hvad nærkona skal gjøra og adhafast; hann er því ýmisligur eptir mismun fædínganna, enn yfir høfud ad segja er hann innifalinn í þessu eptirfylgjandi:

Medan fædíngin yfirstendur

1) Ad losa þau föt, er þreyngja ad konunni, svo sem beltid, edur annad er hún hefir um midtid, samt hálsklútinn og leggjabøndin.

2) Ad lypta undir knén og lendarnar í hrídunum, hvad bædi má gjøra yfirsetukonan sjálf og hennar medhjálpendur.

3) Ad leggja konuna í réttann tíma hægt og hentugliga í fædíngar-fletid, svoleidis, ad hún liggi lágt med hrigginn, enn hátt med lendarnar, og med bakhlutann utarliga á rúms- eda stólbrúninni, hún skal og kreppa lærin vel upp undir lífid, slá vel í sundur knjánum, vid hver medhjálpendurnir stydja, spyrna skal hún í fótskørina, og halda høndunum í létta þann edur húna, sem þar til gjørdur er á stólnum eda fletinu.

4) Ad taka í móti barninu, þá þad fædist sjálfkrafa, svo þad falli ei á gólf nidur og meidi sig; edur og

5) Med snúnínginum ad hjálpa því til ad

fædast, kunni þad ei án ørdugleika, edur øldúngis ecki, ad ské sjálfkrafa.

§. 60.

Snúníngurinn er innifalinn í því, ad smeygja hendinni inní módurlífid, leita eptir og ná yfir um fætur fósturfins, svo þad verdi á þeim útdregid, í gégnum vegu fædíngarinnar, svo opt sem þad hefir skacka edur skadliga legu.

Þetta verk er ei háskalaust hverki fyri fóstrid né módurina, má því ei gjørast, nema naudsyn krefje, og aldrei byrjast utan med stærstu adgætni.

Yfir høfud má adgæta, ad snúníngurinn, gjørist hans þerf, sé byrjadur á þeim tíma módurmunninn er ordinn linur, þunnur og opinn, ef eigi til fulls, þó svo ad hendinni verdi med lempni smeygt í gégnum hann, án stórs ørdugleika og sárinda, ádur enn fóstrid er komid ofláugt nidur í skálina, og ef møguligt er, ádur enn fornistid er sprúngid.

---

Hversu skal búa ad konunni yfir høfud í fædíngunni?

J hverju er snúníngurinn innifalinn?

Er þetta verk hættusamt?

Hvad er yfir høfud adgætandi þá snúníngur skal ské?

Aðferðin er þessi:

1) Skal konan leggjast hentugliga í fletið, annaðhvert á hrigginn, eður, sé móðurbotninn kastaður til annarar hvorrar hliðar í qviðnum, leggist hún á þá síðu, hvaðan hann er fallinn, knén skulu aðskiljast, og annaðhvert styðjast af meðhjálpendum, eður milli þeirra er lagður koddi; beri svo til að fótanna megi leita í móðurlífinu fyrir ofan ísbeinið, skal sú sem fæðir, krjúpa á fjórum fótum, ef henni annars ekkert gagnar að liggja á hliðina, sem áður er sagt.

Nærkona klæðir sig nú úr fötum þeim sem eru henni til hindrunar, nemur staðar að framanverðu við konuna, eður ef hún liggur á hliðina, þá á baka til, standandi eður sitjandi, svo hátt, að hún géti komið sinni útréttu hendi í gégnum fæðíngar vegina, án þess að beygja eður vinda sig við.

Meðhjálpendurnir styðja undir kné og herðar konunni, svo hún liggi kyr, meðan þessi starfi framfer.

---

Hvernin skal sú sem ransakast á, liggja hentugligast?

Hversu skal sú sem ransakar, haga sér á meðan?

Hvað skulu meðhjálpendur gjöra?

2) Ransakar nærkona náqvæmliga þann part barnsſins, er horfir að fæðíngar ſtaðnum, ſvo hún þar af áſkynja verði, hverjumegin hún beſt géti inn komið hendinni að brjóſti og qviði barnſins, hvar hún ſkal reyna til að ná fótunum, ſem vanaligaſt liggja í fyrir á fóſtrinu.

3) Þegar hún hefir til þeſſa verks útvalið þá hönd, er henni þykir haganliguſt þartil, ſmyr hún hana með olíu eðá óſöltuðu ſmjöri, ſmeygir ſvo einum fíngri eptir annann inní op móðurſkeiðarinnar, með vareygð, þannig, að allir fíngra gómarnir, þá þeir inn eru komnir, leggiſt ſvo þétt til ſamans, að hin fram-mjóa hönd verði ſíðan með hægð liðkuð inní móðurſkeiðina allt upp til móðurmunnans.

4) Á ſama hátt færir hún hina ſamanlögðu hönd með meſtu hægð og varúð inní móðurmunnann, glennir ſvo hægt og hægt í ſund-

---

Hvað er það ſem nærkona allra fyrſt á að ranſaka?
Hvað ſkal gjöra við höndina áður byrjuð er ranſóknin?
Með hverri aðferð ſkal fyrſt færa hendina inní móðurſkeiðina?

ur fíngurnar, ad munninn opnist svo mikid, ad hinni sletu hønd verdi med lempni komid þar ígégnum, upp ámilli belgsins og módurlífsins, allt ad úlflid, þó skal varast, ad rønd módurmunnans strengist eigi of mjøg vegna of hastarligra átekta, né fornistid sprýngi, en sé þad sprúngid, þá færist høndin beinleidis inn til fósturfins.

5) Þegar allri hendinni er innkomid í módurlífid, má hún eigi færast lengra upp eptir, milli belgsins og módurlífsins, ad eigi losist módurkakan; sé nú fornistid ecki allareidu sprúngid, sprengja menn þad þannig, ad þegar hrídirnar spenna og þenja þad út sem harda blødru, er borad fíngrinum med afli inní hana, ellegar hún er rifin í sundur med nøglunum, þegar hún linast á milli hrídauna.

6) Undir eins og vatnid rennur burt, færa menn hendina fljótt uppí módurlífid til fóst-

---

Þá þángad er komid, hvernin skal færa hana inní módurlífid?

Þá høndin er øll innkomin í módurlífid, má þá færa hana lengra upp?

Sé fornistid heilt, hvad skal þá gjøra?

Hver er adferdin ad sprengja þad?

ursins, svo handleggurinn teppi edur hindri vatnid ad renna út allt í einu; eptir þetta ransakar nærkona náqvæmliga fósturfins legu, svo hún dæma kunni, hvert barnsins fyrihluti snýr, og hversu hún hægast fái komid sinni slëtu hendi upp med qvid barnsins, og fundid fætur þeß.

7) Milli hrídanna midar hún smámsaman lófanum upp eptir barninu ad framanverdu, allt upp fyri handleggina og naflastrenginn, þó án þeß ad handleggirnir og naflastrengrinn haggist, edur dragist nidur milli fóta barnsins; þar eptir fylgir hún lærunum og knjánum allt til fótanna, hverja hún á hælum og öklum best þeckir frá höndunum.

8) Ad því búnu tekur hún yfir um báda mjóaleggina, lætur einn eda tvo midfíngur sína milli fótleggjanna, hina spennir hún um öklana, svo hún þeß betri handfestu nái á þeßum hálu og sleipu limum, dreg-

---

Sé þad sprúngid, og vatnid renni, hvad skal þá gjöra?

Hvad skal nú ransaka framvegis?

Hvernin skal fara ad leita eptir fótum barnsins?

ur svo fæturnar inná vid ad qvidnum, og sídan lángsetis ofan med barninu ad framanverdu, svo kroppurinn allur, er eigi lætur sig sveigja til baka, snúist upp á vid, og bádir fæturnir verdi undir eins dregnir út í gegnum módurmunnann.

9) Þegar vatnid fyri laungu er útrunnid, og módurlífid hefir sterkt dregid sig saman utan um fóstrid, þá géta menn ecki ætíd nád fótunum, því sídur dregid þá báda út í einu, komi þetta uppá, tekur nærkona um lærid, leitast vid ad smeygja einum fíngri undir knéd inní knésbótina, og dregur svo til sín; strax og knéd er komid fyri módurmunnann, er því midad fram hjá honum, svo fóturinn geti fyrst í gegnum hann komist. Finnist eigi nema annar fóturinn, má snúa barninu uppá vid, med því móti ad toga einúngis þenna fót til sín, og færa hann fyrst nidur í módurskeidina, enn ecki lengra, fyrr enn sá annar er fundinn. Verdi ei

---

Med hverju móti skal ná fótunum?
Er jafnan hægt ad ná fótunum?
Þegar þad ecki verdur, hvad skal þá gjöra?
Þegar annar fóturinn finnst, hvernin skal fara med hann?

fóstrinu snúid vid í módurlífinu, med því ad toga einúngis í annan fótinn, skal þá taka eina lérepts-ræmu eda reim, bregda á hana kappmellu (hleypi-lykkju), er dregin verdur saman, færa svo lykkju þessa upp til hinns fundna fótar, bregda hinni yfir um mjóa-legginn,' og láta einn medhjálpenda halda strídt í hinn úthángandi enda, medan leitad er ad hinum fætinum. Hinn fóturinn finnst, ef nærkona med lófanum strýkur upp eptir endilaungum fæti þeim og læri, sem ádur er fundid, ad innanverdu, allt frá stóru tá, gêsur innanfótar-sídu til kynna, og upp til blygdunarlims á barninu, þadan þvers yfir á hitt lærid, og fylgir því svo ofan ad kné, og þadan nidureptir endilaung-um leggnum útan fótar, allt nidur ad jarka; hér næst færir hún þenna fót inná vid, og nidur á móts vid þann ádur fundna fót svo þeir bádir í einu verdi dregnir í gêgnum módurmunnann, nidur í módurskeidina.

---

Þegar togad er einúngis í þann eina fót, enn fóstrid vill ei snúast í módurlífinu, hvernig skal þá ad fara?

Hvernin skal leita ad hinum fætinum?

Enn ef höfudid, ednr annar limur fóstursins liggur svo fast nidur vid skálina, ad yfirsetu-kona, vegna þess tédum lim verdur ei ýtt til sídu, getur ómøguliga fengid kroppinn útdregid, þó hún togi nidur fæturnar; þá má hún bregda bandi um bádar fæturnar, og hálda stríbt í þad med einni hendi utan fyri fædíngarstadnum, medann hún med hinni annari, hverri sem hentugri sýnist til ad smeygja inní módurskeidina, med lempni leitast vid, ad skjóta höfdinu úr skálinni upp ad módurbotninum, ádur enn hún med valdi dregur fæturnar lengra fram.

10) Þegar nád er bádum fótunum, og þeir verda útdregnir án hindrunar, tekur yfirsetukona yfir um báda øklana, eins og fyrr er sagt, svoleidis, ad hælarnir liggi í lófanum, dregur þá svo út úr fædíngarstadnum.

11) Þegar fæturnir eru útdregnir, skal vefja um þá smágérdum, heitum og þurrum líndúk, til ad hallda þeim því fastari, nærkona tekur utan um þá sem fyrr, ofanverdt vid

---

Enn ef höfudid edur annad teppir fyri, svo kroppurinn verdur ei útdreginn, hvad skal þá gjøra? Þegar fótunum er nád, hvernin skal þá útdraga?

øklana, og dregur síðan lengra framm, allt að knjánum.

12) Undir eins og knén eru komin í ljós, sveypar hún þau á sama hátt með klúti, svo hún með hinni hendinni géti einneginn um þau haldið, dregur síðan fóstrið út með báðum høndum, allt jafnt ofan á við á móti milligarðinum og jørdunni, þángað til dausinn er kominn í móðurskeiðarinnar útgáng.

13) Fyrr enn hún nú dregur fóstrið lengra út, skal hún gjæta að:

*a*) Hvert naflastrengurinn liggur ámilli læranna, sé svo, má hún dragá hann svo lángt út með fíngrum sínum; að hún fái greidt lærið af þeim hans parti, er liggur til móðurkøkunnar, hýta honum svo til þeirrar síðu skálarinnar, hvar hann minust

---

Þegar fæturnir eru út dregnir, hvernin skal svo með þá fara?

Þegar knén eru komin í ljós, hvernin ber nærkona sig þá til verks?

Þegar dausinn er kominn í útgáng móðurskeiðarinnar, hvað er þá framar að merkja?

klemmist edur þryckist. Liggi hann ei milli læranna, má hún þó ransaka, hvert hann strengist ei ofmjög upp med kroppi barnsins, og þeßvegna liggi vid sjálft, ad hann slitni vid naflastadinn; hvad hún hindrad gétur med því móti, ad draga nockud af honum med tveim fíngrum nidur, og út fyri fædíngarstadinn.

*b*) Skal hún og, ádur meira kémur í liós, géfa gætur ad, hversu barnsins kroppur liggi. Snúi lífid ad ísbeininu, má ei draga kroppinn út rétt áframm, svo ad hakan ecki á sídan festist undir boga ísbeinsins, er höfudid skal dragast gégnum skálina; heldur má í tíma snúa kroppnum vid svoleidis, ad qvidurinn snúi nidur ad því helga beini. Þad sama ber og ad athuga fyrr enn fóstrid sé útdregid, liggi þad á adra hverja hlidina.

---

Liggi naflastrengurinn milli læranna á barninu, hvernig skal þá ad fara?

En ef hann strengist of mjög milli kroppsins og módurskeidarinnar, hvad skal þá gjöra?

Hvers vegna, þarf ad snúa barninu vid, þegar qvidur þeß snyr ad ísbeininu?

14) Þeßvegna færir nærkona línklútinn svo hátt uppá mjadmir barnsins, sem hún gétur, leggur adra hendina flata á qvid fósturins, og út yfir adra mjødmina, hina leggur hún á þeß lendar, og út yfir hina mjødmina, svoleidis: ad bádar hendurnar spenni greipar, sídan snýr hún kroppnum vid milli hrídanna, til þeirrar hlidar, er hann meſt hallaſt til, allt þar til dausinn og hælarnir snúa vel upp, og fóſtrid liggur á grúfu, og snýr andlitinu aptur.

15) Þegar búid er ad snúa vid barninu, vefur hún því ádursagda línklædi um þeß mjadmir, tekur um þær med bádum høndum, leggur þumalfíngurnar jafnsídis og lángsetis á lendarnar, lidkar svo barnsins líkama til og frá, og dregur hann til sín, þó allt af ofaná vid, til þeß hann í einu er út dreginn upp ad herdum.

16) Þar næſt leitaſt hún vid ad ná út handleggjunum, ádur enn høfudid er komid ofan í skálina, í hverri meiníng hún ýtir kroppi

---

Hvernin er farid ad því?

Þegar barninu er snúid á grúfu, hvernin skal sig þá framar bera til verks?

barnsins til annarar hlidar ad læri konunnar svo hún fái rúm til ad koma vísifíngrinum og laungutaunginni med vareygd inní módurskeidina, til þeß handleggsins, sem liggur nedar, og nær endaþarminum, eptir hverjum endilaungum hún færir sína tvo fíngur yfir albogann, allt ad framm-handlegg; og

1) Liggi þá handleggurinn upp med höfdinu, beygi hún framm-handlegginn, eptir sínni náttúrligu bugdu, innyfir andlit og brjóst barnsins, og færir hann svo ígegnum módurskeidina; strax sem annar handleggurin er kominn í liós, ýtir hún kroppnum yfir til hinnar hlidarinnar, svo hún fái rúm til ad ná hinum handleggnum med sömu adferd.

2) Enn liggi handleggirnir í kroß aptur fyri hnackann, edur undir hökunni, þá má framm-handleggurinn einneginn beygjast ofan á síduna, og á sama hátt lidkast nidur eptir.

---

Þá barnid er útdregid allt ad herdum, hvad er þá fyrst ad gjöra?

Med hverri adferd skal ná út handleggiunum, liggi þeir upp med höfdinu, edur í kroß bak vid hnackann?

17) Ádur enn höfudid er dregid út, má yfirsetu-konan náqvæmliga ransaka þeß sérligu legu.

a) Hvert þeß mesta lengd liggi í stærstu vídd skálarinnar, og andlitid snúi til baka í annadhvert vikid. Ef svo er, grípur yfirsetu-kona med flatri hendi um herdar barnsins, svoleidis: ad hálsinn liggi í milli hennar tveggja lengstu fíngra, enn hinir gángi ofan undir axlirnar, kroppnum heldur hún sjálf, edur einn af medhjálpendum, svoleidis, ad hann horfi beint út, enn haggist ei til hid minsta, því nærst færir hún inn tvo fíngur hinnar annarar handarinnar, upp med barnsins brjósti, inní módurskeidina og módurlífid, allt til andlitsins, leggur þær kríngum nasirnar (ecki í munninn), og med þeßu móti ytir hokunni og andlitinu nidur ad brjóstinu, og snýr því edur þokar um leid nidur ad bugdu þeß helga beins. Strax ad þeßari vidréttingu höfudsins fullgjørdri, lyptir hún og þokar barnsins líkama uppá vid ad qvid konunnar, og undir

---

Hvad er adgætandi ádur enn höfudid er útdregid?

eins þrýstir hún hökunni ad brjóstinu, med fíngrum þeim hún ennú hefir inní móódurlífinu, og í þeßari sömu stefnu er höfudid dregid kríngum bogann undir ísbeinid, svoleidis ad andlitid komi fyrst í ljós, án þeß ad skaddist milligardurinn.

β) Skyldi hnackinn vera síginn oflángt nidrí skálina ad framanverdu, og hak-an standa föst vid kroßbeinsins gnýpu, svo má medhjálparinn halda kroppnum beint út frá fædíngarstadnum; yfirsetu-konan færir þá, eins og fyrr, adra hönd sína inn med brjóstinu, ad hún géti lagt tvo fíngur kríngum nefid og munninn; tvo fíngur hinn-ar handarinnar færir hún upp undir ísbein-id allt til hnacka barnsins, þryckir svo bak-höfdinu frá sér, undir eins og hún med fíngrum þeim, er hún lagdi kríngum nefid, leitast vid ad snúa andlitinu í annad-hvert vik skálarinnar, og þrýstir hökunni ad brjóstinu, strax sem hún er komin í vik-id; ad búinni þeßari lagfæríngu, skal med-hjálparinn lypta kroppnum upp á vid, og

---

Þegar höfudid liggur rétt eptir hinni síærstu vídd skálarinnar, hverju er þad þá útdregid?

med sama móti, og rádid var í næst töldu tilfelli, draga barnid út.

γ) Hafi höfudid eigi snúist undir eins edur jafnframt kroppnum, enn andlitid snúi ad boga ísbeinsins, ad þeßvegna standi á hokunni, svo tekur nærkona med sínu þurru línklædi um brjóstid, og ýtir því hægt uppí skálina, ad botni módurlífsins, því næst lyptir medhjálpari undir kroppinn og beygir hann upp ad qvid konunnar, medan yfirsetukona færir sem lempiligast flata hendina inní módurskeidina, og nær um bakhöfudid, hverju hún snýr vid, undir eins og kroppnum, þannig, ad andlitid og fyrihluti fóstursins snúi til annarar sídu skálarinnar, sídan færist andlitid nidur í bugdu hins helga beins, og fædíngin fullgjörist, eptir því sem ádur er ávísad.

§. 61.

Eptir fædínguna er adbúnadurinn, í tilliti til fóstursins, innifalinn:

---

Skyldi hakan standa föst á kroßbeinsins gnypu, og þannig gjöra móistödu, hvernin skal þad leidréttast?

Enn standi hún á ísbeinsins boga, hvad er þar vid ad gjöra?

1) Framar øllu í því, ad endurnæra fóstrid, sé þad veikt, og hverki hljódi, edur gèfi annad teikn til lífs af sér. Sé þad þá bleikt í andlitinu, og máttþrota, þá undandregur nærkona ad skilja á milli, svo lengi módurkakan losnar ecki, og ennú finnst sláttur slagædanna í naflastrengnum. Enn á medan leitast hún vid, ad ná slími því med fíngrunum, sem er í hálsi barnsins, þrýsta þeß nøsum saman og blása inní þeß munn, lypta brjóstinu hægt upp, edur reisa barnid ad framan, og láta þad detta skyndiliga nidur, núa kroppinn hægt ad utan med vermdum línklút, kríngum hjartad, um hrigginn og undir iljunum; bregda einhverju sterklugtandi, svo sem hvítum lauki, enn ecki brennusteins spítum, fyri vitin; lauga þad í vatni svo heitu, sem þad þolir, hvarí er blandad víni edur brennivíni, setja því stólpípu annadhvert af sápu edur sallti, uppleistu í vatni, ellegar af

---

Hvad á nærkona ad gjøra vid barnid eptir fædínguna?

Hvad leingi má bída ad skilja á milli hjá líflitlu barni?

tóbaks seydi; sé høfudid marid edur hafi komist vid, lagfærist þad med jafnri þryckíngu; sé barnid þarámót svart og blátt edur marid í andlitinu, skilur nærkona milli á venjuligum stad, enn bindur eigi fyrir, fyrr enn koppkorn af blódi er útrunnid, þar eptir brúkar hún þau ádurtøldu hjálparmedøl.

2) Þegar fóstrid er ordid lífligt, má binda fyrir nablann: brúkast þar til nablabandid, sem vafid er um strenginn 3svar edur 4rum sinnum, þriggja eda fjøgra fíngra breidt frá lífinu, med tveimur hnútum, sídan klippist strengurinn med skjærum 1 þuml. fyri framan bandid. Þeir feitu strengir megu bindast þéttar enn hinir blódríku.

3) Sídan laugast hid seiga slím af barnsins

---

Sie þad veikt eda lítlítit, hvernin skal þad endurnærast?
Hvenær má eitt nyfædt barn missa blód, og hvernin skédur sú blódtaka?
Hvar á ad binda um nablann, og hvad opt er bandinu um vafid?
Hvar á ad skilja ámilli?
Er nockur mismunur á nablastrengjum í tilliti til, hvernin um þá skal bindast?

líkama, með heitu vatni, og sápu eða víni, að undanteknum skilníngarvitunum, er vaktast megu fyri sápunni og vatninu; nockrir brúká olíu, þá líkaminn er mjøg svo grómtekinn af slími.

4) Í sama vetfángi er eptirséð, hvert barnið hefir sínar náttúrligu opnanir og hægðir til baksins, gétur látið vatnið, lokið upp augum og munni, hvert það er ei beinbrotið, ofskapað, eður skaddað, hvert það hefir opin eyrun, túnguhapt, eður aðra limu ónáttúrliga samangróna.

5) Að því búnu, er barnið reifað; skal þá kreysta lítið naflastrenginn, svo menn sjái hvert blæðir, vefja hann í klúti vættum í olíu, eður ósølltuðu smjøri, leggja síðan upp á brínguna, og sambrotna ríu á ofan, binda svo yfirum alltsaman með naflabindinu; hausamótin skal og þekja með dulu nockurri; barnið er síðan reifað uppá almennt brúkanligann hátt. Yfirsetu-konan má og jafnaðarliga fyrst framan af vitja um barn-

---

Hvað er að þeßu búnu við barnið að gjøra?
Í hverju, og hvernin skal lauga það?
Hvað skal jafnframt aðgjæta á meðan?

sins nabla, þar til stúfurinn er dottinn í burtu, að eigi slitni hann af of snemma, vegna baðgætnis, þegar hann er farinn að skorpna, og blóðrásin taki sig upp á ný; öll önnur umsorgun barnsins er foreldrunum á hendur falin.

§. 62.

Í tilliti til konunnar, eptir fæðínguna, ber nærkona umsorgun fyrir:

1) Að hún komist vel frá fylgjunni, eður hennar hagur greiðist vel; hvað opt skéður sjalfkrafa, af náttúrunnar egin hjálp, þegar móðurkakan er føst, enn hvergi laus orðin, og eingi teikn eru til blóðláta, heldur að móðurlífið dregur sig saman, og með nýum eptirhríðum útdrífur fylgjuna; enn séu teikn til blóðláta, og kakan losnuð frá, þá má ei láta hana kyrra, til þess hún sjálfkrafa kémur. Menn géta og með kunst tekið fylgjuna,

---

Hvernin skal búa um naflastrenginn áður reifað er?

Fyri hverju hefir nærkona að bera umhyggju viðvíkjandi konunni, eptir fæðínguna?

Með hvaða skilyrði má fylgjan yfirlátast náttúrunni til útfærslu?

svo fljótt sem finnst á qvidnum, ad módur-botninn dregur sig vel saman, og ei eru fleiri fóstur eptir í módurlífinu. Þad skédur svo-leidis, ad nærkona vefur strengnum um tvo fíngur á einni hendi sér, og med annari togar hann ofan á móti ad milligardinum, hristir hann til og frá, þángad til módurkakan losnar og fylgir med; enn ef módurkakan er fastari enn svo, þá má ei toga of fast, ad hverki slitni strengurinn, sem hægliga ské kann, sé hann mjór, edur allareidu farinn ad rotna, né botn módurlífsins dragist nidur, hvar af hægliga orsakast sina-drættir, og jafnvel sjálf-ur daudinn; heldur skal yfirsetukona í þessu tilfelli, smeygja hendi sinni inní módurlífid, fylgja strengnum allt upp til módurkøkunn-ar, þreifa med fíngrunum allt umkríng rønd hennar, til ad finna, hvert hún sé nock-urstadar laus, sé hún laus einhverstadar, smeygir hún einum edur tveimur fíngrum þar inn, hvar kakan er laus frá módurlíf-inu, flisjar svo med hægd brún hennar allt umkríng frá módurlífinu, hvar hún er føst-

---

Hvernin verdur fylgjan tekin med kunst, og hvad er þar vid athugandi?

ust við, togar undir eins í strenginn, og dregur svo út; enn sé hún hvergi laus, má hún á sama hátt, leitast veð með fingra endunum að narta hana frá.

Hafi hún togað svo fast í strenginn, að hrikti í, eður hann slitni, má hún einnig fara inn með hendina í móðurlífið, leita að brún móðurkökunnar, slíja hana frá, og taka hana út með hendinni þegar hún er losnuð. Hér eptir skal hún skoða fylgjuna, hvert hún er heil, eða eptir eru af henni eða belgnum tyrjur í móðurlífinu, að hún strax, ef svo er, géti tekið þær út. Hafi móðurhálsinn lukt sig saman, og fylgjan sé eptir, skal ei að nýu fara inn með hendina til að taka hana, heldur fela það verk sjálfri náttúrunni, nema teikn sjáist til voveifligra blóðláta.

---

Sé hún aldeilis først, hvað skal þá tilgjøra?
Hafi naðlastrengurinn slitnað, hvernin skal þá að fara?
Þegar fylgjan er tekin, hvað er þá framar að yfirvega?
Hafi móðurhálsinn lokið sig, enn fylgjan sé eptir, hvað skal þá gjøra?

Merk: Ad láta hina fædandi blása í hendur sér, hósta eda rembast, notar ecki; og ad þrysta edur klappa á lífid, til ad losa fylgjuna, er mjøg hættuligt.

2) Ad Fædíngarstadurinn sé yfirbreiddur med volgum samanløgdum líndúk, til ad bægja hinu kalda lopti frá ad leggja ad honum.

3) Ad bundid sé um lífid, þegar þurfa sýnist; er þad gjørt med þar til løgudu bindi, sem er svo breidt, ad þad nær frá brjósti- ofan á mjadmir, og er dregid saman eda herdt í sama jøfnudi, edur eptir því, sem lífid sjatnar, ad þess partar hafi jafnann studníng, þó án þess ad merjast eda kreystast; sumir brúka hálstrefil eda annad mjótt band, og reira um qvidinn, enn þvílikt er ætíd skadligt. Þessi umbindíng gjørir einkum gagn í miklum blódlátum, enn skadar, ef qvidurinn, af bólgu eptir hardar fædíngar, er aumur og uppþrútinn.

---

Hver ønnur kérlíngarád eru brúkud til ad losa fylgjuna, og eru þau rádlig?
Hvernin skal búa um fædíngarstadinn?
Hvernin og med hverju er bundid um qvidinn?
Hvada gagn gjørir sá umvafníngur?
Er hann jafnan nytsamligur?

4) Að henni luckuliga verði komið uppí rúmið, og hún hægt løgð endilaung á bakið, með þunnri yfirðýnu eður brekáni ofan á, að hún komi í hægann jafnann dampa, enn ei sterkann svita.

Eigi má hún flytjast of fljótt í rúmið, þá hún er ørmagna af fæðíngar erfiðinu; því sé hún mjøg lémegna og køld, hafi svim, suðu fyrir eyrum, og henni hafi sortnað fyrir augum, þolir hún eigi strax að láta flytja sig.

Þegar hún skal flytjast, verður að herða á lífbindinu; ecki má hún sjálf standa upp, enn síður gánga að rúminu, heldur verður að bera hana, og skal einn taka undir miðtið, og annar undir fæturnar. Hafi hún um það leiti hroll- eður kølldu-umleitanir, má ei géfa henni rínskt vín eður annað þesskyns, til að hita sér á, heldur einhverja af áðursøgðum súpum, blandaða með cítrónsaft eða ediki; bindinu verður og að halda þétt um lífið, til þeß téðar umleitanir eru af liðnar.

---

Hvenær má óhult flytja konuna í barnsængina?
Með hvaða varatekt skal þetta ské?
Hvað skal géfa henni til endurnæríngar ef hún finnur til kuldahrolls?

# Um þá fullkomnu fædíngu.

§. 63.

Hina orduligustu almenniligustu og fullgjördustu fædíngu ber jafnan ad seinast í þeirri fertugustu viku barnburdarins; byrjar, frammfer, og fullendast hún af eginn ramleik, med fullkomnum fædíngar hrídum, án annarligrar tilhjálpar, og hefir aldrei í ferd med sér nockurn óumflýanligan háska fyri módurina edur barnid.

§. 64.

Hvílíkt fædíngarverk þeckist:

a) Af fædíngarpartanna rétta jöfnudi, nl.:

1) Ad módurlífid hefir sína orduligu legu og útvídkun; þannig: ad qvidrinn, nú þegar konan er rétt kominn ad falli, stendur framm sem hnöttótt hædarkorn, rétt fyri nedan naflann; Ad módurhálsinn finnst kúluvaxinn, þunnur og jafnt útvídkadur

---

Hvernin er sú orduligasta og fullkomnasta fædíng?
Hvar af þeckist þessi fædíng?
I. hverju er fædíngarpartanna rétti jöfnudur innifalinn?
Hvernin gefur módurlífid fædíngarinnar fullgjörleika til kynna?

hvervetna; ad módurmunninn snýr midt ofan í skálina, lítid aptur á vid, móti því heilaga beini. Af þeßum eiginligleikum má ráda, ad módurlífsins verkun ætli ad ské rétt nidur eptir skálarinnar midlínu, og ad nedri hluti módurlífsins, þá hann er ordinn mýktur og útþynntur, muni eingri óvenjuligri mótstedu valda.

2) Ad fóstrid hefir sína tilhlídiliga legu og stærd, og finnst þá, í gégnum hinn þynnta nedri hluta módurlífsins, sem hardur kúlu-vaxinn líkami, er aldeilis fyllir út þad efra op skálarinnar, og er ásamt módur-lífsins nedri hluta nockud nidur sigiun, og liggur þúngt í opi skálarinnar; hér af er ad ráda, ad høfudid beri ad, og stærdin svari svo til skálarinnar ops, ad eingi tor-veld mótstada sýnist í vændum.

3) Ad skálin hefir sína réttu løgun og vídd, og þeir mjúku fædíngar vegir sitt náttúrligt ásigkomulag, því þeßir gjøra

---

Hve sést á fóstrinu, ad fædíngin muni verda fullkomin?

Hvernin sést þad á skálinni, og þeim mjúku fædíngar vegum?

annars hina merkiligustu mótstødu í fædíngunum; enn þegar skálin er velløgud ráda menn, ad þar sé nóg rúm fyri fóstrid, og ad hinir vel løgudu mjúku partar láti sig lidugliga útvídka.

b) Af þeim umbreytíngum, er ské sérdeilisliga í þeßum fædíngum, nefniliga:

Í því fyrsta tímabili ské þær sidvanaligu umbreytíngar orduliga og skilmerkiliga (§. 49).

Í því ødru tímabili 1) umbreytast fyrirvara-hrídirnar til orduligra og fullkominna fædíngarhrída (§. 47.), sem byrja med sterkari, sárari og hvidusyllri spenníngum frá nabla, leida nidur yfir lendar, og endast í skálinni, fara vaxandi í skírligri, vißri og tilhlídiligri ordu, bædi ad hastarligleika, lángvaranligleika, afli og sárri þreyngsla tilfinníngu. 2) Módurmunnans varir þenjast jafnt, og eins

---

Hvernin géfa umbreytíngarnar í fædíngarinnar fyrsta tímabili til kynna, ad hennar byrjun sé fullkomlig?

Hve má af umbreytíngum annars tímabils, af hrídunum, módurmunnanum, og belgnum, ráda fullkomna fæding í vændum?

mikid hvervetna, í hrídunum, og módurmunninn opnar sig jafnan krínglóttur. 3) Forniſtid belgiſt út rétt krínglótt, verdur því vídara og vídara utan til, sem módurmunninn í hrídunum útvídkaſt meir og meir. 4) Höfudid samanpreßaſt, og þar vid lengiſt, í efra opi ſkálarinnar, og ſkýtſt á ſnid nidur eptir, ſvo ennid og andlitid liggja í ödru hverju viki því, sem eru til hlida vid kroßbeinſins gnýpu; bakhöfudid ſnýr á móti því rétt yfirſyri liggjandi lífbeini; pílusaumurinn finnſt liggja á ſká yfir módurmunnanum, hvar ſkálin er vídust; og þad fremra hausamót finnſt baka til, mótsvid þad vik, er andlitit ſnýr til.

Merk: 1) Þeßi ſérliga og gagnvænliga lega, er höfudid fær í hinu efra opi, kémur af kroßbeinſins frammſtandandi gnypu, ſem ſtyrir enniskúpunni til hlidar yfir í hina ſtærſtu vídd; hversvegna höfudſins ſtærſta lengd kémur til

---

Hvernin ſkal höfudid gánga gégnum efra opid?
Hvernin á ennid og andlitid ad liggja?
Hvernin bakhöfudid?
Hvar finnſt pílusaumurinn þá?
Enn þad fremra hausamót?
Hvad orſakar þeßa hagqvæmu legu?
Hverju veldur þeßi lega?

ad svara þeß efra ops stærstu vídd, og høfudsins minsta breidd ad liggja í opsins minstu vídd.

2) Á þeßum undangángandi umbreytíngum þeckist, ad byrjun fædíngarinnar er fullkomlig.

Í því þridja tímabili, 1) aukast hrídirnar í ádur byrjadri ordu, og fædíngar erfidid vex, þannig sem í §. 51. er greint. 2) Módurmunnans randir edur varir þynnast og vídkast jafnt út, nema framanverdt undir lífbeininu, hvar þær eru nockud þyckri enn annarstadar. 5) Fornistid er alltaf kyrrt úti fyri módurmunnanum. 4) Bakhøfudid nidurpreßast sígandi úr því efra opi, nidur eptir seßbeinanna snidhøllu fløtum, frammávid og undir boga ísbeinsins; svo ad frammhøfudid,

---

Hvernin géfa umbreytíngar fædingarinnar 2rs tímabils til kynna, ad hún fullkomliga framgángi?

Hverja umbreytíng taka hrídirnir í því 3ja tímabili?

Hvernin verdur módurmunninn?

Hversu hagar fornistid sér?

Í hvada stefnu sígur høfudid nidur í gégnum sjálft opid?

ásamt hinu fremra hausamóti og pílusaumunum, liggur lángs með bugðunni á því heilaga beini, það aptara hausamót finnst fyrir innan milligarðinn, suðr þar ámóti dausbeininu, enn vinkilsaumurinn upp á móti lífbeinunum.

Merk: Við þeßa haganligu umbreytíngu á höfuðsins legu, kémur þeß stærsta lengd að nýu til að svara hins neðra ops stærstu víðáttu, og höfuðsins breidd til skálarinnar neðra ops minnstu víðáttu, hversvegna fæðíngin verður, í tilliti til fósturins útgaungu af skálinni, svo mjøg léttari.

2) Á þeßum strax töldu umbreytíngum, þeckja menn fæðíngarinnar fullkomna framgáng.

Í því fjórða tímibili 1) byrja hinar skjálfandi hríðir, ásamt fæðíngar erfiðisins óþolanliga strángleika. 2) Móðurmunninn er ølldúngis útsléttur, og hjá þeim sem fyrsta sinni fæða, kémur teiknúngin (§. 52.). Himn=

---

Hversu liggur pílusaumurinn, og fremra hausamótið?

Hvar finnst vinkilsaumrinn og aptara hausamótið?

Hverju veldur þeßi hagqvæma lega?

Hvað géfa allar þeßar umbreytíngar til kynna?

Hvað skéður í hinu 4ða tímabili, þegar allt fer að skøpum?

urnar sprŷnga. 4) Þeir ytstu fæðíngarlimir útþenjast hvervetna. 5) Bakhöfudið ýtist framm og upp undan boga ísbeinsins, frammhöfudið útþenur milligarðinn, og barnið skýtst út með andlitið ganandi úti loptið.

Merk: 1) Þeßi sérliga stefna sem höfudið fær í útgaungunni, orsakast af bugðu þeß helga beins; af því hnackinn er svo fastur undir ísbeinsins boga; af þeirra útþøndu fæðíngar-lima og dausbeinsins spennikraft-fullu mót-stødu og stjórn uppávið mót boga ísbeinsins. 2) Í þeßu tímabili géfa umgétnar umbreyt-ingar til kynna, að fæðíngin algjørliga full-endast.

Í því fimmta tímabili skér þar sidvana-ligu umbreytíngar (§. 53.), nema móðurkakan sé áður laus orðin í fæðínguuni.

§. 65.

Fyrir utan þær almennu fæðíngar orsakir

---

Hvernin liggur høfudið, í því það kémur út?
Hversvegna styrist høfudið uppá sagdann máta?
Hvað géfur þetta til kynna?
Hverju gengur í hinu 5ta tímabili, þá allt er sem ber?
Hverjar eru sérligar orsakir hinnar orðuligu og fullkomnu fæðíngar?

(§. 41.), gèfast einnig aðrar auka-orsakir, er gjöra þeßa fæðíngu fullkomnari enn hinar, nefn.: Móðurlífið og fóstrið verka orðuliga í þeßari fæðíngu: 1) Vegna þeß að móðurlífsins og fósturins lega svara til skálarinnar miðpúnkts, svo fóstrið þeßvegna færist jafnan lóðrétt niður á mót miðju hennar, og verkar með öllu afli á móðurmunnann, án þeß að steyta á, eður óregluliga hindrast af börmum skálarinnar. 2) Móðurlífsins neðri hluti er tilbæriliga útvíðkaður, mýktur og þynntur um meðgaungutímann, lætur þeßvegna liðugar undan í fæðíngunni, er á tilhlýðiligri tíð innfellur (§. 63.). 3) Verkunin og samkiprunin í móðurlífinu fara ávallt vaxandi, þar þeß gagnþynnti neðri hluti lætur svo liðugliga undan; og svo sem hvílíkt skèður frá móðurbotnsins miðpúnkti, er liggur miðt ofan yfir skálinni, jafnþúngt á móðurlífs munnanum hvervetna, eins líka samanverpist móðurmunninn allt umkríng, og orsakar því orðuligri og sterkari þjáníng, er orðuliga vex til jafns með spenníngunni, veldur lengra niðri-

---

Vegna hvers verkar móðurlífið og fóstrið svo orðuliga?

haldi andardráttarins, og þar á eptir fylgjandi kroptugri þreyngíngu, og uidurþrýstíngu. 4) Fóstrid, sem er fullburda á réttum medgaungutíma, hefir sína tilbæriligu stærd, og ber þar ad auk ad á hofdinu, sem er hinn ávalasti partur þeß, og snýr nidur ámóti módurmunnanum og fædíngar veginum, enn af því dausinn þarámót, med fótunum, krepptum upp undir lífid, er breidari, ummáls stærri, og snýr upp ámóti módurlífsins botni; svo verkar fóstrid med sinni fram-mjóu keilu-myndudu løgun og stærd med þeß nægiligri krapti og allri sinni þýngd á þá undirliggjandi mjúku limi, og opnar þá þeß audveldligar.

Mótstadan yfirvinnst hægligar í þeßari fædíngu: 1) Af því á módurmunnann, sem adur er þynntur, enn hefir eingann undirstudníng, mædir alls módurlífsins, fóstursins og vatnsins fullkomin verkan. 2) Skálarinnar efra ops mótstada verdur fyrr yfirunnin, bædi af því þad hefir réttann jøfnud í vídd sinni og løgun, og líka af hofudsins sérligu

---

Hvad veldur því, ad bædi módurmunnans og beggja skálarinnar opa mótstada yfirvinnast svo hægliga í slíkum fædíngum?

legu á ſká, og þeß tilbærligu ſtærd, er ſvarar til ſkálarinnar ummáls, ſvo þad orduliga kann ad þryckjaſt ſaman, og midaſt nidur í holid. 3) Mótſtada ſú, er ſkálarinnar nedſta op gjørir, yfirvinnſt fljótar, af því høfudid er ádur ſamanþryckt í hinu efra opi; þeß lega ſvarar til opſins ſérligu vídáttu; módurmunninn er algjørliga útvídkadur, og módurbotnſins kraptur aukinn, vegna hanns lángvaranligu ſamdrátta. 4) Módurſkeidin og hinir ytri fædíngar-limir láta þeß léttar undan, ſem hin ønnur mótſtada hinna efri, er ádur fyrifram yfirunnin; fóſturſins, módurlífſins og vatnſins verkun er ſterkuſt í þeim ſkjálfandi hrídum, og á þeßa mjúku parta, er eingann undirſtuduíng hafa, reynir allur þeirra kraptur. Allar þeßar kríngumſtædur, er leggjaſt á jafntøk, eru orſakir þær, er valda fædíngarinnar ordu og fullkomleika.

§. 66.

I þeirri fullkomnu fædíngu hjálpar náttúran ſér ſjálf, uppá hinn beſta og óhultaſta

---

Því láta módurſkeidin og hinir ytri fædíngarpartar ſvo létt undan?

Hverr hjálpar í þvílíkum fædíngum?

máta, svo nærkona hefir ei annad ad gjøra, enn einasta ad bera umsorgun fyri því almenna í fædíngunni, nefniliga:

1) Í tilliti til ransóknarinnar; ad hún komist eptir, hvert fædíngarlimirnir séu í tilbæriligu ásigkomulagi, og hvert þeirra umbreytíng í fædíngunni skédur uppá þann tilhlýdiliga máta, sem í §. 64 er sagt, samt hvert hrídirnar séu fullkomnar.

2) Í tilliti til undirbúníngsins; ad hún hafi fædíngar rúmid uppbúid, hvert heldur hún vill láta konuna fæda í hennar vanaliga rúmi, í einum nærkonu stóli, á fjórum stólum samanbundnum, þannig, ad bakslár þeirra snúi út, ellegar hún leggur hana þversum í rúmid, edur í eitt almennt vendiflet; hvad alltsaman er jafngott í þeßkyns fædíngu, svo lengi hún fullkomliga frammgengur, og konan finnur sér hægdir þarvid, enn þó er best ad hafa vid hendina eitt almenniligt fædíngarflet (§. 58.), vegna uppá-

---

Hefir þá nærkona ecker ad sýsla, edur hvad?
Hvar til þarf hún ad ransaka?
Hvad þarf hún helst ad adgæta í tilliti til undirbúníngsins?

fallandi tilferla, og fyrir hreinlætis og fóst-
ursins vidtøku skuld. Í øllu ødru er ad-
farid, sem ofir høfud er sagt (§. 58).

3) Í tilliti til adbúnadarins athugist í fæd-
íngu þeßari: 1) Ad lendar, kné og fætur
stydjest í hrídunum, hvernin sem konan
liggur. 2) Ad hún sé eigi offnemma flutt
í fædíngar-fletid, heldur fái ad leita sér
hæginda eptir eigin tilfinníngu sinni og vilja,
allt þángad til ad módurmunninn er af
hrídunum nægiliga opnadur, og høfudid fer
ad þrýsta út þeim ytstu fædíngarlimum;
þá er fyrst sú rétta tíd ad flytja hana í
fletid, ad þeß betur verdi tekid móti barn-
inu, og fylgjunni sídan út nád.

4) Ad hún taki vid fóstrinu, med því móti,
ad taka utan um høfudid med flötum hønd-
unum beggja vegna, strax sem þad er kom-
id í ljós, leggja vísifíngurnar yfir hnack-
ann, og þá ytstu fíngur undir høkuna,
þumalfíngurnir megu stydja á vísifíngurnar,
enn ecki á bakhøfudid; þar eptir er kropp-
urinn dreginn á høfdinu og lidkadur til og

---

Enn vidvíkjandi atbúnadinum?
Hvenær er tíd ad flytja konuna í fædíngarfletid?

frá, mest frammávid, og allt af vel nidur á vid móti milligardinum og jordunni, þángad til hann allur er útdreginn.

5) Ad sídustu skal nærkona, í þeßari fullkomnu fædíngu, varast, ad áfýsa konuna til nockurs sjálfgjørds edur offnemms erfidis; hlífa skal hún fornistinu vid ad rifna; útvídka hverki módurmunnann né módurskeidina med fíngrunum; ecki þryckja edur skada høfudid, dausbeinid edur milligardinn, heldur stydja undir hann med sletum lófunum, svo hann smámsaman geti þynnst, framskotist, og útvídkast, án þeß ad glidna ofmikid; eptir fædínguna hegdar nærkona sér þannig, sem ádur er sagt í §. 60 og 61.

## Um of hastarliga fædíngu.

§. 67.

Þá of hastarligu fædíngu ber einnig ad á ordulígum fædíngar tíma, enn hún byrjar med

Hve skal tekid vid fóstrinu?
Hvad skal yfirsetu-konan varast i þvílíkri fullkominni fædíngu?

of sterkum og sársaukafullum fædíngar hríð-um, sem vaxa of hastarliga, og með of mikl-um offa hrinda út fóstrinu, já stundum öllu egginu í einu, hvaraf bædi módurinni og barn-inu er stærsta hætta búin.

§. 68.

Sérílagi þeckist þeßi fæding þaraf:

1) Að fædíngarlimirnir hafa sinn rétta jöfn-ud eins og í þeirri fullkomnu fædíngu, ad undanteknu því, ad skálin er annadhvert ofvíd, eda fóstrid er ofurlítid.

2) Af þeim sérligu umbreytíngum, er ské í þeßari fædíngu: ad hrídirnar koma hastar-liga, rétt frá fyrstu byrjun, hver á fætur annari, eru lángvaranligar, og hafa varla nockurt millibil, enn verka med miklu meira ofurefli og sárindum enn í hinni fullkomnu fædíngu; ad módurmunninn allt í einu umbreytist og útvídkast; ad fósturfins hof-ud þreyngist hastarligar fram, enn vant er; ad fornistid opt og tídum rifnar ecki; ad milligardurinn útnar út og rifnar allt í einu.

---

Hversu er varid of höstugri fædíngu?
Hvar af þeckist hún?

§. 69.

Auk tilefna þeirra, er slík fæðíng hefir ásamt hinni fullkomnu §. 6., og án hverra hún ecki kann að ské, géfast tvær aðrar orsakir, er auka og valda hennar hættarligleika, nefn.:

1) er mótstaðan í þeßari fæðíngu minni enn í þeirri fullkomnu, því annaðhvert er skálin of rúmgóð, eða barnið er minna enn það ætti að vera.

2) Eykst fæðíngarkrapturinn, af því að móðurbotninn á hægra með að yfirvinna þá litlu mótstöðu sem hér er, sárindin aukast og, svo miklum mun meir, sem móðurmunninn sterkar útvíðkast, og þaraf verður þreyngíngin og niðurþrýstíngin öflugri.

§. 70.

Afleiðíngar af þeßari fæðíngu eru hættuligar, því:

1) Bæði tæmist qviðurinn allt í einu og slaknar, af eggsins of hastarligu útferð, hvar af léttiliga fylgja fárlig aungvit.

2) Síðan losnar opt móðurkakan og hrynd-

---

Hverjar eru hennar orsakir sérilagi?
Hvað veldur að mótstaðan er hér svo harla lítil?
Enn að fæðíngarkrapturinn eykst svo mjøg?

ist út samfara egginn, hvar af daudlig blód-
lát af módurlífinu kunna ad orsakast.

3) Optliga útvídkast milligardurinn um of,
þared höfudid eingri mótstødu mætir, né
tekur neinni stefnu í útgánginum.

§. 71.

Þeßi fæding þarf eingrar framandi edur
aukahjálpar vid, sér til framqvæmdar, hefir
því nærkona einúngis ad bera umsorgun fyrir
því almenna, nefniliga:

1) Í tilliti til ransóknarinnar; ad hún med
henni komist tímanliga eptir, hvert þau
kénnimerki hafa stad, er boda fædíngarinn-
ar hastarligleika (§. 68).

2) Í tilliti til undirbúníngsins útheimtist sér
í lagi: 1) Hentugligt fædíngar-flet, er
konan skal leggjast í, því hún má hér
hverki fæda sitjandi, standandi, eda krjúp-
andi. 2) Auk annars klædnadar útheimt-
ist bindi til qvidarins, er leggja má laus-

---

Hvad leidir af þeßari fædíngu?
Þarf sú hastarliga fæding nockurrar framandi,
edur auka-hjálpar vid?
Fyri hverju hefir nærkona þá ad bera umsorgun?

liga um, ádur fædíngin er fullendud. 3) Adrir hlutir tilreidast sem vant er (§. 58).

3) Í tilliti til adbúnadar, skal nærkona sér í lagi gaumgæfa, medan fædíngin varir: 1) ad leggja konuna tímanliga í fædíngarsletid, jafnvel fyrr enn módurmunninn er ad øllu leiti opnadur. 2) Ad hindra fædíngarinnar hastarligleika annadhvert med því ad sprengja forniſtid ádur enn módurmunninn er fullkomliga opnadur; edur ad auka mótstødu høfudsins, annadhvert med því, ad færa einn eda tvo fíngur inn, bádum megin høfudsins milli þess og sesbeinanna, medan hrídin yfirstendur, ellegar ad færa einn fíngur, hvers baki sé snúid upp ámóti hofdinu, inn ígégnum endaþarminn, upp fyri dausbeinid, stydja svo gómunum á enda þess helga beins, til ad gjøra skálarinnar stærstu vídáttu þrengri nedan til, sé hún vídari enn svo ad svari stærd høfudsins. 3) Ad taka vid fóstrinu, svo þad ecki falli á gólfid ne

---

Hvad á hún ad hafa til reidu í þessari fædíngu framar enn endrar nær?

Hvenær skal sú fædandi flytjast í fædíngar-sletid?

taki skada. — Eptir fædínguna berist umsorgun, fyrst fyri konunni: 1) Ad qvidurinn strax umbindist uppá venjuligann máta, sé módurkakan ecki losnud, og hún sídan látin koma sjálfkrafa. 2) Enn sé hún losnud, eda hafi fylgt fóstrinu, og blódlátin eru sterk, þá neytist allra medala til ad fá módurlífid til ad draga sig saman, er ské kann: med því ad leggja línklút, vættann í köldu vatni, edur ediki, utan á berann qvidinu; þrýsta qvidnum og módurlífinu þétt upp ad mjóhriggnum med flötum höndunum, edur því umlagda bindi, medan blódlátid er fárligast, ellegar í nauds-falli dýfa hendinni í kaldt vatn eda edik, færa hana inn í módurlífid, og halda henni þar inni, þángad til módurlífid dregur sig saman utan um hana, bera sídan konuna til rúms med mestu gætni, þegar hún aptur er komin til krapta, og blódlátin er ei

---

Med hverju móti má seinka fædíngunni, eda bindra hennar hastarligleika?
Hvernin skal fara med konuna eptir barns burdinn?
Skal strax taka fylgjuna?
Enn hafi konan mikil blódlát, hvad er þá til ráda?

lengur ad óttast; skipa henni ad leggja lærin vel saman, svo milligardurinn nái aptur saman ad gróa; þarnæst má nærkona einnig ala önn fyri fóstrinu, og strax klippa belgina í sundur, hafi hid heila egg í einu útkomid, sídan fer hún med barnid eins og vandi er til (§. 61).

## Um þá lángsömu fædíngu.

§. 72.

Þá lángsömu fædíngu ber einnig ad á ordu-ligum fædíngar tíma, enn hún byrjar og framm-gengur med hfrid lángsamliga varandi fædíngs-arhrídum, framqvæmist á laungum tíma, og er stundum hættusöm, einkum fyri fóstrid.

§. 73.

Menn þeckja þeßa fædíngu sérílagi þaraf:
1) Ad fædíngarlimirnir hafa allir sitt tilbæri-liga samkomulag, eins og í hinni fullkomnu fædíngu.

---

Sé þad heila egg útkomid í einu, hvad skal þá gjöra vid þad?
Hvernin er sú lángsama fæding?

2) Ad umbreytíngar í fædíngunni ské seinliga; hrídirnar sérílagi vara mikid draert; módurmunninn heldur sér lengi óumbreyttum, ádur hann þynnist og útvídkast; fósturfins høfud, jafnvel þó þad liggi orduliga, frammskýtst þó mikid tregliga; fornistid sprýngur optast mikid seint, enn stundum miklu fyrr enn ber; fóstrid midast framm um sídir, enn þó ofur lángsamliga.

§. 74.

Þad rétta innbyrdis samkomulag, sem fædíngarlimirnir hafa, sýnir, ad mótstadan í þeßari fædíngu ecki er of stór né óvenjulig; heldur verdur fædíngar krapturinn, edur módurlífsins samdráttur og verkan á fóstrid, ad vera veikari og lángsamari enn í hinni fullkomnu fædíngu; og kunna þar til ad vera fylgjandi orsakir: 1) Of mikid blódríki. 2) Módurmunnans óvenjuligur strídleiki hjá øldrudum konum er fyrsta sinni fæda, edur of mikil vidqvæmni. 3) Kann of mikid vatn ad vera í belgnum, veikir

---

Hvaraf þeckist hún sérílagi?
Er ecki mótstada fædíngarlimanna orsök til þeßarar lángsømu fædíngar?
Hver mun þá sú rétta orsök?

það og útþenur móðurlífið um of, eður það kann að vera of snemma útrunnið, svo móðurlífið dregur sig saman og hindrar fyri snúníngum höfuðsins. 4) Himnurnar kunna að vera of seigar. 5) Naflastrengurinn of stuttur. 6) Sá mjúki fæðíngarvegur óvenjuliga harður og stríður.

§. 75.

Sú lángsama fæðíng þreytir hina fæðandi mjög svo; er ei altíð hættulig, nema þegar móðurkakan, vegna stuttleika naflastrengsins, losnar í fæðíngunni; þegar naflastrengurinn er vafinn um fóstrið, og það klemmist oftlengi; eða naflastrengurinn í fæðíngunni slitnar sundur.

§. 76.

Þeßi fæðing þarf eingrar framandi hjálpar til framqvæmdar sér, enn sjá má til að stytta lángvaranligleika hennar; nærkona má þeßvegna:

1) Nansaka fæðíngarlimanna samkomulag og umbreytíngar í fæðíngunni, og komast

---

Hvað veldur óstyrk móðurlífsins, og fæðíngar kraptanna?

Hve má dæma um slíka fæðíngu fyrifrainm?

Þarf þeßi fæðíng hjálpar til framqvæmdar sér?

eptir undir eins, hver af þeim ad ofan umgétnu orsøkum mest hindri módurbotnsins tilheyriligu verkan. Þannig þeckist:

*a*) Blódríkid af líkamans rauda og blossandi útliti; af ædaslættinum, sem er fullur, útþaninn, hardur og tídur.

*b*) Módurmunnans strídleiki þeckist af því, ad hann er alltaf eins hardur og þyckur, og lætur ecki ljúfliga undan.

*c*) Hans of mikla vidkvæmni má ráda af fædíngar hrídanna stóru sárindum og af uppkøstum þeim er fylgja, þá vid honum er snortid.

*d*) Ad vatnid sé of mikid, sést af módurlífsins of miklu útvídkun, óg af ofurnægd þeirri af vatni, sem finnst ámilli høfudsins og belgjanna.

*e*) Ad himnurnar séu of seigar, þeckist þar af, ad fornistid, med vatninu í, hángir utan fyri módurskeidinni, medan høfudid er í

---

Hvad hefir nærkona þá ad gjøra?
Hvar af þeckist blódríkid?
Hvar af þeckist módurmunnans strídugleiki?
Eun hans ofmikla vidkvæmni?
Hvar af þeckist ad ofmikid sé vatnid?

útgánginum, án þeß ad rifna sundur sjálfkrafa.

*f*) Ad naflastrengurinn sé stuttur, þeckist af hrídunum, sem koma ad sønnu hver eptir adra, enn detta í dúna logn þá minnst varir, og orsaka sérílagi sára spenníngu undir bríngspølunum; þarnæst af því, ad høfudid togast jafnótt inn aptur, er finnast kann strax sem hrídirnar hætta.

*g*) Módurskeidarinnar og þeirra ytstu parta stirdleiki þeckist af þeirra ósidvanaligu mótstødu.

2) Má hún tilreida þá venjuliga brúkudu hluti (§. 58).

3) Og ad sídustu má hún medhøndla þeßar lángsømu fædíngar eptir reglum þeim, sem í hinni fullkomnu fædíngu kénndar eru (§. 66.), nefniliga:

*a*) Ef ad hrídirnar niderkéfjast vegna blódríkis: þá má konunni taka blód á handlegg, einu sinni edur optar, eptir kríngstædum.

---

Enn ad belgurinn sé of seigur?
Hvar af má ráda ad lækurinn sé ofstuttur?
Hve skal konan medhøndlast í þeßari fædíngu?
Hversu skal adfarid, sé hún blódrík?

b) Sé módurmunninn of stirdur eda vidqvæmur, þá þéna mýkjandi bød, smyrsli, blódtøkur og innvortis pínustillandi medøl, er útvegast meiga hjá einum læknir; enn eingannveginn kunstugar útvídkanir med fíngrunum.

c) Sé vatnid of mikid í egginu, hverfur sú orsøk af sjálfri sér, strax sem módurmunninn er svo opnadur, ad vatnid, ásamt belgnum, getur leitad nidur í módurskeidina.

d) Renni vatnid of snemma, þá verdur ecki ad því gjørdt.

e) Séu himnurnar of seigar, þá mega þær spreyngjast med kunst, enn þó ei fyrr enn þær hafa útvídkad þá ytstu fædíngarlimu, þarf þá ei annad enn klippa þær í sundur med breidoddudum skjærum.

f) Hindri nablastrengurinn fóstrid frá ad midast nidur, þá má snúa því í tíma, einkum ef tøluverdt blódlát, af losnun módurkøkunnar orsakad, skyldi formerkjast, ef hrídirnar eru mikid stuttar, veikar, og í

---

Hvernin skal mykja of stirfinn módurmunna?
Hversu er adfarid þá vatnid er of mikid?
Hvad skal gjøra vid belginn, þá hann er of seigur?

stadinn þeß ad vara, sýnast ætla ad hætta; þarámóti, ef ad hrídirnar vidvara og vara, fóstrid smámsaman þokast nidur betur, og eckert hættuligt blódlát sýnir sig, skal fædíngin náttúrunni yfirlátin; og væri hún þá ad lyktum máttvana ordin til ad fullkomna fædínguna, mundi best ad sækja læknir til ad draga fóstrid út med taunginni.

Skyldi kroppurinn sitja fastur eptir þad höfudid er fædt, af því nablastrengurinn sjálfur væri of stuttur, þá má barnid ei dragast út á höfdinu med afli, ad strengurinn ei slitni vid nablastadinn, eda módurkakan losni eda módurbotninn togist inn. Enn ef strengurinn er svo opt umvafinn fósturfins háls, ad kroppurinn verdur ei útdreginn þó höfudid sé fædt, þá má nærkona reyna fyrst til ad draga strenginn svo mikid til sín, ad hún géti rakid hann utan af hálsinum, ádur enn

---

Hindri nablastrengurinn fóstrid, hvad skal þá gjöra?

Má fæding þeßi nockurn tíma yfirlátast náttúrunni alleina?

Enn ef konan er mjög máttvana, og náttúran ei sjálfri sér fullnóg, hvad er þá til ráds?

kroppurinn er dreginn út; og ef það eigi er gjørligt, þá færir hún, svo fljótt sem verdur, eitt naflaband með einum fíngri sínum inn undir strenginn, bindur um hann á tveim stødum, og klippir hann í sundur þar á milli, dregur þar nærst barnid út sem fljótast. Hafi móðurbotninn dregist inn, og þaraf leidi sínadrætti, þá mætti nærkona strax eptir fædínguna færa hønd sína inní móðurlífid, og ýta móðurbotninum til baka aptur. Fylgdi því sterkt blótlát, mætti hún fara þarmed sem kennt er vid hina of hastarligu fæding (§. 71).

g) Skyldu þeir ytstu fædíngarlimir, med því að gjøra of mikla mótstødu, valda fædíngarinnar lángvaranligleika; þá megu þeir smyrjast med nýrri feiti, og styðja vel undir þá med høndunum, enn ecki megu þeir

---

Sé lækurinn of stuttur í verunni, edur margvafinn um barnsins høfud, hve skal á slíku bót rádin?

Hve skal fara að, ef móðurbotninn hefir dregist inn?

Enn ef blódlát fylgja þar með?

med fíngrunum vídkast út, þángad til höf-udid er fædt.

Eptir fædínguna ber nærkona sig þann-ig ad, sem fyrr er sagt í §. 61. 62.

## Um þá hördu og erfidu fædíngu.

§. 77.

Pá hördu fædíngu ber ad á þeim takmark-ada fædíngar tíma, byrjar hún og frammfer med óordulígum fædíngar hrídum (§. 47.), hvar med fylgja óvenjulig tilfelli, sem eru hætt-ulig bædi fyri módurina og barnid, og ei full-endast hún af sjálfri sér nema med ofur mikl-um, já stærstu bágindum.

§. 78.

Orsökin til þeßarar fædíngar er vansi nockur eda galli annadhvert í módurlífsins út-

Orsaki hinna ytri fædíngarlima strídugleiki láng-sama fædíng, hve skal því vidhjálpad?
Hversu skal sídan adfarid ad lyktum þeßarar fædíngar?
Hvernin er sú harda fæding?

vídkun eda í fósturſins legu og ſtærd, ellegar í ſkálarinnar og þinna mjúku fædíngarlima áſig-komulagi.

§. 79.

Þeßvegna þeckiſt þin harda fæding bædi af limanna órétta ſamkomulagi, og óregluligu umbreytíngum í fædíngunni.

Hvad limanna órétta ſamkomulag áhrærir, þá kann:

Í fyrſta máta: módurlíſid vera mikid ójafnt útvídkad, og liggja ſkackt, ſvo ad botninn halliſt frá midju qvidarins til annarar hverrar hlidar, eda framm yfir barm ſkálarinnar; og módurmunninn, ſem ecki heldur liggur yfir midpúnkti ſkálarinnar, ſnúi til þeirrar hlidar, hvadan módurbotninn hallaſt, er med ranſókninni á qvidnum og í módurſkeidinni audveldliga formerkiſt.

Orſøkin til módurlíſſins ſkéckju er, ad módurkakan er føſt þeim megin í módurlíſinu, er botninn ſnýr til; og veldur þad

---

Hver er orſøk til hennar?
Af hverju þeckiſt hún?
Med hverju móti kann módurlíſid vera óregluliga á ſig komid?

móðurlífsins ójafna vexti um meðgaungu-tímann.

Þegar skéckjan er ecki allt of stór, eins og í þeirri ómøguligu fæðíngu, svo kann nærkona enn nú að finna alla rønd móður-munnans innan í móðurskeiðinni, og ecki er hún þá til fulls dregin upp að barmi skálarinnar, liggur heldur einúngis nockuð vindt frá skálarinnar miðpúnkti. Af móð-urlífsins ójøfnu útvíðkun kunna menn létt að ráða: að þess samdráttur skéður óreglu-liga á einn veg meir enn annann; og þess skacka lega veldur, að þryckíngin á fóstrið skéður ecki lóðrétt niður á móti miðpúnktin-um, heldur í þess stað móti barmi skál-arinnar.

Í annann máta: kann fóstrið að hafa óreglu-liga legu og órétta stærð.

Itilliti til legunnar.

1) Kann ennið að snúa aptur ámóti gnýpu

Hver er orsøk til móðurlífsins skøcku legu?
Hvernin finnst þetta þá skjeckjan er ecki allt of stór?
Hvað má ráða af móðurlífsins ójøfnu útvíðkun og skøcku legu?
Hvernin kann fóstursins ásigkomulag að vera óregluligt?

kroßbeinsins, ellegar framm ámóti ísbeininu, ellegar til hlidar ámóti ødrum hverjum mjadmar-spadanum; þeckist þetta af pílusaumsins og hausamótanna legu, er finnst yfir módurmunnanum, og snýr til sømu lima og ennid snýr. Lètt má ráda: ad þá høfudsins stærd, í þvílíkum legum, svarar ecki til skálarinnar ummáls, og þeß stærsta lengd má þryckjast í gégnum skálarinnar þreyngstu vídd, svo getur ei annad verid, enn ad fóstrid í slíkri legu þokist mjøg óregluliga framm.

2) Kann hofudid, ásamt hondinni eda fætinum, ad bera nidur í skálina og gjøra hindran í fædíngunni.

3) Kann fóstrid ad bera nidur í skálina med med dausinn á undan, og þad med fernu móti, nefnil.: ad qvidurinn snúi móti kroßbeininu, eda ísbeininu, ellegar ødrum hverjum mjadmar-spadanna; þeckist þetta í fædíngunni, ádur enn vatnid rennur, þar af:

---

Hve kann høfudid ad bera óréttiliga ad?
Hvar af þeckist þad? og hvad er þar af audrádid?
Hvad kann ad bera fleira enn høfudid?
Med hvad mørgu móti kann dausinn ad bera ad?

ad módurmunninn liggur óvenjuliga hátt uppi, módurhálsinn er sívalari, og uppfyllt- ur í meira lægi, fornistid er ecki svo flatt, limur sá er adber, er linur stór og hold- mikill. Þá vatnid er runnid, finnst dauss- sins skapnadur, ad lærin og blygdunar lim- ir barnsins liggja til einhverrar af fjórum hlidum skálarinnar, og þau grænu saur- indi, er koma af barninu nidur í módur- skeidina, er hægt ad þeckja. Pad er aud- rádid: ad ecki einúngis dausinn, vegna sinn- ar breiddar, stærdar og óhentugleika til ad beygjast eptir bugdu skálarinnar, heldur og einnig hofudid, ásamt handleggjunum, kunna ei annad þegar lengra framm í sæk- ir, enn gjøra sterka mótstødu, allra helst ef hakan á barninu snýr framm, og háng- ir føst á ísbeininu, eda rekur sig á krófs- beinid ad aptan verdu.

4) Kunna fæturnir, med fyrrsøgdu fernslags móti, ad koma fyrst nidur í skálina; þeckist þad af fornistisins frammjóu løgun í fæd-

---

Hvar ad þeckist ad hann ber ad?
Hvad er af þvílíku audrádid?

íngunni, og af því, ad hælarnir og tærnar finnast strax fyrir innan himnurnar.

Í þeßu tilfelli megu hinar sömu hindranir orsakast af höfdinu og handleggjunum, seinast í fædíngunni, sem ad ofan eru upptaldar.

Jtilliti til stærdarinnar.

1) Kann höfudid, jafnvel þó sjaldann beri til, ad vera í sjalfu sér heldur stórt; má þad ráda þar af: ad módurmunninn liggur hfrid hátt, módurhálsinn er óvenjuliga útþaninn í eina búngu, höfudid sígur ofur lángsamliga nidur, og er mjög þrútid, jafnvel þó eingar adrar hindranir formerkist í fædíngunni. Edur og höfudid kann ad vera uppbólgid af vatni, og þeßvegna of stórt, er þeckist af stærd þeß, saumanna breidd, hinna á víxl gengnu beina óvenjuligu leingd, og einkanliga af stórum aflaungum linum þrota á höfdinu í fædíngunni.

---

Hvar af þeckist, ad fæturnir bera ad?
Hvad vill þar af fljóta?
Med hvad mörgu móti kann höfudid ad vera of stórt?
Hvar af gískast, ad þad sé of stórt í sjálfu sér?
Hvernin þeckist ad þad sé af vatnsfótt?

Eda hofudid kann ad vera samgróid; og þá finnast hverki saumar né hausamót, og høfudbeinin géta þá ecki heldur geingid á misvíxl hvert uppá annad í fædingunni, høfudid kann ad vera afskapad; og þeckist þá þeß sérligi skapnadur af ransókninni.

2) Herdarnar kunna ad vera of breidar, eda liggja svo óorduliga, ad þær hindri kroppinn frá ad koma á eptir, þá høfudid er fædt.

3) Qvidurinn kann ad vera óvenjuliga þyckur, fullur af vatni eda vindi, svo hann gjøri sterka mótstødu, þá brjóstid er fædt.

Í þridja máta: skálin kann ad vera nockud óorduliga skøpud, nefniliga:

1) Kroßbeinsins gnýpa kann ad slúta heldur mikid framm, edur ísbeinid kann ad vera heldur flatt eda beint í því efra opi, svo ad høfudid klemmist meir saman til beggja hlida, og stýrist meir á þvers nidur í holid, svo ad bakhøfudid á bágara med ad skjótast framm undir boga ísbeinsins.

---

Enn ad beinin séu runnin í eitt?
Kann barnid ad vera of stórt med fleiru móti?
Hvernin kann skálin ad vera óorduliga skøpud í hennar efra opi?
Hvad flytur þar af?

2) Í því nedra opi kann endi þeß helga beins ad skaga heldur lángt inn á vid, undir boga ísbeinsins; edur dausbeinid lætur eckert undan og skagar inn, vegna hvers høfudid klemmist meir saman á lángveginn, enn vant er; eda seßbeinin liggja heldur nálægt hvert ødru, svo ad bakhøfudid má klemmast meir saman á þverveginn, og med stærri bágindum gánga nidur um þad nedra op. Øll þeßi lýti kann ransóknin ad uppgøtva.

Í fjórda máta: kunna þeir ytri fædíngarlimir ad vera óregluliga skapadir, samgrónir, liggja skackt, edur hafa adra galla, er orsaka meiri eda minni, þó ei óyfirvinnanligann ørdugleika.

§. 80.

Þær óregluligu umbreytíngar, er ské í

---

Med hvad mørgu móti kann þad nedra op vera illa lagad?

Hvad flytur af því, þegar seßbeinin eru of nærri hvert ødru?

Hvernin kunna þeir ytstu fædíngarpartar ad vera ólagligir?

þeßari fædíngu, géfa hid annad kénniteikn uppá, ad hún sé hørd og erfid, nefniliga:

Þá módurlífid er skackt:

Byrja hrídirnar án undangángandi ordu-ligra og skilmerkiligra bodara, framgánga mjøg ófullkomliga, vaxa ecki á tilhlídiligum tíma, né verda tídari, lángvaranligri og sterk-ari, heldur eru stundum sterkari, stundum veik-ari, stundum hætta um lángann tíma, og þad án nockrar vißrar ordu edur jafnadar. Mód-urmunnans varir teygjast ójafnt í hrídunum, þynnast seint og ójafnt umhverfis. Fornistid slest ei út, heldur sprýngur of snemma ádur enn módurmunninn er opnadur, og vatnid renn-ur sprænandi burt. Fóstrid hytist á skack til annarar hverrar sídu skálarinnar, enn ecki beint nidur eptir midpúnktinum í sjálft holid.

Eptir því sem meir lidur á, og fædíng-in framqvæmist, fer þrotinn varandi á þeim lim er ad ber, høfudsins sauma og hausamót

---

Hvar af géfst hid annad merki uppá harda fædingu?

Hvernin haga hrídirnar sér, þá módurlífid er skackt?

Hvernin ber módurmunninn sig ad?

Hvernin er fornistid? og nær sprýngur þad?

Á hverja leid stýrist fóstrid nidur eptir?

verdur torveldt ad finna; hrídirnar vidvara þó vegna píunnar, enn eru jafnan óreglu-ligar. Módurmunninn opnar sig ogsvo, enn ofur seint og ójafnt. Kenni þá høfudid nid-ur í holid af barmi skálarinnar, svo vaxa hrídirnar, og ad lyktum yfirvinna módur-munnann, skjóta høfdinu framm og fædíngar-limunum út, svo fædíngin endast med minni ørdugleika enn hún byrjadi.

Þá fósturstins lega einúngis er nockud óreglulig; og

1) Ennid snýr til baka á móti krossbeininu, eda framm á móti ísbeininu; þá byrja hrídirnar veikar, lángvaranligar og ófull-komnar; módurmunninn opnar sig jafnt umkríng, krínglótt, enn seint; forníistid verd-ur flatt; og láti þá høfudid sig nægiliga samanklemma á lángveginn, svo ad þroti hørnndsins fari vaxandi, og beinin skarist upp í hvirflinum, þá vaxa hrídirnar, og módurmunninn opnast fullkomliga; fari svo, þá lengra lídur á fædínguna, ad sá partur høfudsins, er snýr ad ísbeininu, nái fyrst ad

---

Hvernin gengur fædíngin framvegis?
Snúi ennid rétt framm eda aptur, hversu geng-ur þá fædíngin?

síga nidur í holid, svo fullendast fædíngin med minni ørdugleika. Snúi ennid mót ødrum hverjum mjadmarspadanna, svo er hrídunum, módurmunnanns opnun, og forníftisins stillíngu orduliga háttad í upphafi, og høfudsins lengd preßast nidur þversum í skálina; enn ad lyktum verda hrídirnar veikari; høfudid samanklemmist af seßbeinunum med miklum ørdugleika á lángveginn; hvirfilbeinanna jadrar skarast upp, og umsídir, þegar hid samanflatta bakhøfud framskýtst, fullendast fædíngin med lángsemi og ørdugleika.

2) Þegar dausinn ber ad: byrja hrídirnar nockurnveginn orduliga; módurmunninn, sem liggur yfrid hátt, og er nærsta hardur, þynnist lángsamliga, og hans op er sem aflaung kríngla; forniftid vísar sig meir hnøttótt enn flatt; dausinn sígur nidur, svo módurmunninn smámsaman sléttist út; þegar lídur á fædínguna verda hrídirnar ófullkomnar; vatnid og sá græni saur renna út þá

---

Enn snúi þad mót ødrum hverjum mjadmarspadanna?

forniſtid hefir rifnad; dauſinn klemmiſt, og þrotinn á hörundinu verdur ſvó ſpenntur og hardur, ad dauſinn kann valla ad greinaſt frá höfdinu; ad lyktum verda hrídirnar ófullkomnari; milligardurinn teygiſt ſvo mjög, ad hönum er búid vid ad rifna; þó ef hrídirnar vidvara, fædiſt dauſinn, ſamt ei án ſtórrar þvíngunar og milligardſins óvenjuligrar útvídkunar; þá dauſinn er útkominn, vaxa ad ſönnu hrídirnar, og kroppnum midar út allt ad öxlum, enn ſídan mínka þær aptur, og höfudid áſamt handleggjunum kann ad gēta fædſt med rembíngi, þó mikid ſjaldan, og eigi nema med allra ſtærſtu bagindum og lífs hættu fyri barnid, klemmiſt uablaſtrengurinn í ſkálinni.

Merk.: Sé barnid minna enn venju ſætir, ſvo fædiſt þad léttar í þeßari ſtillingu.

3) Þegar annann eda báda fætur ber fyrſt ad: þá byrjar fædíngin og frammgengur nockurnveginn orduliga eins og ádur; enn ad lyktum mæta ſömu bágindi med höfudid og handleggina.

Þegar fóſturſins limir eru heldur ſtórir;

Hverſu fer þegar dauſinn ber ad?
Enn þegar fæturnar ber ad?

þá svara hrídirnar mjøg misjafnt til mótstødunnar, og fædíngin fullendast med meiri eda minni bágindum.

Þá skálin einúngis er óordulig:

1) Svo ad kroßbeinid skjagar heldur mikid framm ávid, eda ísbeinsins bogi er heldur flatur, svo eru hrídirnar í upphafi mjøg ófullkomnar; módurmunninn opnar sig kringlótt og jafnt umhverfis; fornistid stillir sig flatt; høfudid þryckist lángs nidur um þvert inní þad efra op, og klemmist saman á þverveginn svo hørundid verdur mjøg þrútid. Enn ef bakhøfudid, er kýlir upp, sígur þá nidur í móti ødru hverju seßbeinanna, og hrídirnar vaxa; svo útvídkast módurmunninn til fulls, og fædíngin frammgengur og fullendast orduligar.

2) Þegar gallarnir eru ecki allt of stórir í hinu nedra opi skálarinnar: svo eru hrídirnar í upphafi og frammgángi fædíngarinnar fullkomnar; módurmunninn opnar sig kríngl ótt og orduliga; fornistid stillir sig

---

Hversu fer þá limir fósturssins eru heldur stórir? Enn þegar skálin ofanverdt er heldur þraung ad aptan og framan?

slatt, höfudid nidurpreßast med bakhöfudid inn undir boga ísbeinsins. Enn ad lyktum verda hrídirnar óorduligar jafnvel þó rembíngurinn vidvari; höfudid klemmist saman á lángveginn, af ísbeinsins boga ad ofan, og enda þeß helga beins ad nedan, svo ad bákhöfudid lengist svo og mjóckar, ad þad um sídir med stórum bágindum gétur fædst.

Þegar gallarnir eru einasta í þeim mjúku fædíngar-portum:

Þá skéé allar umbreytíngar í fædíngunni orduliga, allt til þeß uppá sídkastid, þá hrídirnar verda ófullkomnar; höfudsins nidurþrýsting og fædíngarlimanna útþensla hindrast, eda skédur med óreglu og nauminndum.

§. 81.

Sú harda fædíng leidir af sér mjøg hættulig tilfelli, er auka hennar naud og skadvæni; eru þau einkum þeßi eptirfylgjandi:

1) Kann módurlísid ad bólgna, og þaraf

---

Hvad skédur ef hid nedra op er ei vel lagad?
Enn þegar gallinn er einúngis í hinum ytri fædíngarlimum?
Hvada hættulig tilfelli eru þad sem gjarnast fylgja hardri fædíngu?

verda of stirdt, þrútid, aumt og óduganligt til ad draga sig saman og frammfylgja fædíngunni; bólga í módurlífinu þekkist, þegar eptir undangángandi kulda og hroll, fylgir óforvarandis sóttar umleitun med brennandi hita í líkamanum, hørdum og tídum ædа slætti og stóru magaleysi; þegar qvidurinn þrútnar upp og verdur svo óvenjuliga sár og vidqvæmur, ad konan ecki þolir ad láta neitt útvortis koma vid hann; þegar hrídirnar fara jafnan mínkandi, enn verda þó æ sárari, og þegar iduglig grænleit uppkøst medfylgja, þá er bólga í módurlífinu og þeim kríngumliggjandi limum.

2) Módurskeidin og þeir ytstu fædíngarlimir kunna ad bólgna, er þeckist af þeirra sára og mikla þrota, samt brennandi hita og þurki, hvar af þeirra útvídkun verdur lángt sárari og ørdugri enn byrjadi.

3) Hlandbladran kann ad fyllast af þvagi:

---

Hverju veldur bólga módurlífsins?
Hvar af þeckist hún?
Af hverju þeckist bólga í módurskeidinni edur þeim ytstu fædíngarlimum?
Hvad skédur ef høfudid þrystir of mjøg ad blødruhálsinum?

þegar blødru-hálsinn klemmist af bakhøfdinu, er stendur inn á móti ísbeininu, eda þegar ísbeinid er svo flatt, ad høfudid þrykkir blødru-hálsinum; þar af útvíkkast og þenst bladran svo sterkt af þvaginu, ad hún optliga nær upp undir nabla, og er búin til ad sprynga; þeßi mikla útþensla þekkist af brennandi verk fyrir ofan ísbeinid, er leidir nidur í skálina; af blødrunnar skapnadi, og af því af þeßi þroti er línari enn sá sem er í módurlífinu, þá þad er bólgid; ad sídustu þekkist þetta af þeim ómøguligleika sem konan finnur í því ad láta þvagid. Þegar þvaginu er lengi haldid inni, og þad safnast fyri, verdur þad opt svo stækt og skarpt, ad þar af orsakast sterkir og hættuligir sinadrættir í fædíngunni.

4) Skálarinnar samkomur kunna ad glidna: þegar høfudid of sterkliga innklemmist í skálina, og lida-taugirnar eda bøndin eru

---

Hvar af þekkist þetta, og hve adgreinist þad frá bólgu?

Hvad kann ad leida þaraf?

Hve kunna lidamót skálarinnar ad glidna, og hvad flytur af því?

ok liu; hvar af sídan orsakast nockurskonar óhægd þá konan á ad gánga.

5) Í þeßari fædíngu kann barnid ad komast í lífsháska, af fylgjandi orsøkum; nefnil.: þegar haußkélin þrýstist á rød eda barm skálarinnar; edur fóstrid allt klemmist of lengi í holinu; eda naflastrengurinn þryckist annadhvert af høfdinu, daußnum, eda ødrum limum fóstursins, þá hann slædist út med þeim.

Ad fóstrid sé lifandi í medgaungunni, þeckist:

1) af þeß hræríngu eptir þann fimmta mánud, og því, ad þad, nedan til í módurlífinu, vex og þýngist meir og meir, nema tvíburar séu.
2) Af módurlífsins regluligum vexti og umbreytíngum.

Ad fóstrid sé daudt um medgaungutímann, þeckist þar af: Ad konan finnur ad barnsins hræríng er alltaf minni og minni, dag

---

Hvada háski er fóstrinu búinn í þvílíkri fædíngu?
Af hverju þeckist, ad fóstrid sé lifandi um medgaungutímann?
Af hverju má vita, ad þad sé daudt um medgaungutímann?

frá degi, eptir því sem barnid veikist meir og meir, og umsídir finnst eingin hræríng; edur og ef barnid tekur hastarligann kipp einusinni, hvar eptir fylgir kulda-hrollur, enn sídan formerkist eingin hræríng meir; þá er ei ólíkligt, ad barnid deyi af slagi; eptir þetta sígur qvidurinn, og nabla gróstin kémur aptur í ljós; konan merkir þýngsli nockur í skálinni, og snúi hún sér hastarliga af einni hlid á adra, falla þýngsli þeßi til þeirrar hlidar, á hverja hún leggst; stundum finnur hún, ásamt þeßu, til nockurskonar kulda í módurlífinu, brjóstin verda lin, og géfa þunnann veßa frá sér; bætist hér vid útvortis orsakir, ad módurlífid hafi eitthvad komist vid, edur ordid fyri hnjaski, eda konan hafi ad undanförnu lidid sterkar sinnis-hræríngar, þá er því vißara, ad barnid sé daudt.

Í sjálfri fædíngunni þeckist ad fóstrid sé daudt ádur, þegar þeß saur, blandadur med einslags ílla lugtandi vætu, flýtur út af módurlífinu, strax sem forniſtid er sprúngid; þegar

---

Hver teikn géfa til kynna í fædíngunni sjálfri, ad þad sé ádur daudt?

Af hverju má vita ad þad sé lifandi í fædíngunni?

saumarnir, hausamótin og beinin eru samanfallin, og þeirra skörpu brúnir setjast úti húdina.

Ad fóstrid sé lifandi í fædíngunni, þeckist af þeß hræríngu; medan samdráttur módurlífsins, þá vatnid er útrunnid, enn nú eigi hindrar hana; af slætti slagædarinnar, sem helst er finnanligur í hausamótunum og á gagnaugunum, medan þroti höfudsins enn nú ei bægir ad finna hana; edur og af slætti naflastrengsins, þá hann ber ad framan fyrir, og eigi þryckist af ödrum lim; og af bjúg hörundsins, er vex og hardnar meir og meir, medan þreyngslin eru sem mest.

Ad barnid deyi í fædíngunni þeckist þaraf; ad sá hardi bjúgur á hörundinu verdur linur; ad einslags rotnud illalugtandi ilgja tekur til ad fljóta út af fædíngarstadnum; ad hörundid á þeim lim, sem ad ber, dettur af vegna allareidu byrjadrar rotnunar, og lodir vid fíngur þá, med hverjum ransakad er; ad höfudbeinin, sem ádur vóru föst, hörd, og valla bifanlig, falla saman, og linast í samkomunum; ad fóstrid tekur harda kippi, hvar eptir fylgir strídur kuldi og hrollur hjá hinni

---

Af hverju þeckist, ad þad deyr í fædíngunni?

fædandi, án allra annara orsaka, en þeßarar, að fóstrið er þá daudt.

§. 82.

Þær hørðu fædíngar eru ecki allar eins hættuligar; enn þó almennt að segja:

1) Því stærri sem gallinn er í lim þeim er veldur hinni hørdu fædíngu, þeß ørdugri verdur og fædíngin.

2) Því veikari og ófullkomnari hrídirnar eru, þeß fárligri mun fædíngin verda.

3) Því fleiri gallar sem eru í fædíngar-limanna innbyrdis áſigkomulagi, þeß erfidari og hardari verdur fædíngin. Og

4) Því fleiri tilfelli sem samfara eru fædíngunni, þeß hardari og hættuligri verdur hún.

§. 83.

Í þeirri hordu fædíngu skal yfirsetukonan: ransaka áſigkomulag fædíngarinnar, og limanna umbreytíngar, samt náqvæmliga grenslast eptir orsøkinni til ørdugleika fædíngarinnar, og hvad stór hætta búin sé. Þar-

---

Er sú harda fæding jafnan eins fárlig?
Hvar af kunna menn þá fyrifram að dæma um hennar ørdugleika og hættu?
Hvad á nærkona að gjora í þvílíkum?

næst má hún tilreida þá naudsynligu hluti, eins og í øllum ødrum fædíngum; og ad sídustu haga adbúnadinum eptir þeþara hørdu fædínga ýmislegu orsøkum sérílagi; nefniliga:

1) Þegar módurlífid er einúngis nockud skackt, enn skálin og fósturfins lega reglulig, hrídirnar vidvarandi, og ei of linar; svo lætur hún fædínguna ráda sér sjálfa. En sé þad mjøg skackt, edur galli er þar ad auk á einhverjum lim, eda hrídirnar eru óstødugar og veikar, þá má snúa barninu.

2) Ef hvirfilinn ber ad, enn ennid stendur í móti kroßbeininu, eda snýr á mót ødrum hverjum mjadmarspadanna, þá má ei med neinni vißu vænta góds útfalls, hvar fyrir best er ad snúa barninu í tíma, nema ad skálin sé yfrid vel løgud, módurlífid liggi rétt, og hrídirnar þaradauki vari vid, og séu svo sterkar, ad høfudid þrýckist saman, og hnackinn formerkist strax í fyrstu

---

Undir hvada kríngumstædum má þeßi fædíng ráda sér sjálf?

Hvad skal gjøra liggi módurlífid mjøg skackt?

Enn ef ennid snýr á móti kroßbeininu eda mjadmar-spødunum?

jafnt og þétt að miðast niður í skálina, þá kynni fæðíngin að ské sjálfkrafa. Gángi þarámót ennið á undan niður í skálina, þá er nauðsynligt að snúa barninu.

3) Beri hvirfilinn að, enn ennið snúi framm undir boga ísbeinsins, þá er hið vißasta að snúa barninu í tíma, nema að skálin sé reglulig, móðurlífið liggi rétt, hríðirnar séu ei of hægar, og ennið gángi á undan, niður fyri boga ísbeinsins; þá kynni fæðíngin sjálfkrafa að ské án háskasemdar.

4) Þegar önnur eða báðar hendurnar koma ásamt höfðinu niður í skálina, þá kippast þær opt til baka, af móðurmunnans þreyngslum, rétt í því að höfuðið smeygist í gégnum hann; ef ecki, kann þó yfirsetu-kona gjarnan vænta, að fæðíngin vißuliga skédur sjálfkrafa. Beri undir eins að höfuðið og annann fótinn, þá er allt örðugra, og mun best að snúa barninu. Beri höfuðið og

---

Hvers er að vænta snúi ennið að ísbeininu?
Enn komi hendurnar eður annar fóturinn með höfðinu?
Enn beri naflastrenginn að með höfðinu?

naflastrenginn ad undir eins, þá er ráðlegast, verdi ei strengnum ýtt svo lángt inn fyri móðurmunnann, að hann þrýckist eigi, að súa barninu, svo þad ei deyi fyri þá skuld í fædíngunni.

5) Veri dausinn ad í fædíngunni, þá er ecki óhult, ad láta barnid fædast þannig tvøfaldt, heldur skal draga þad út á fótunum; enn sé þad allareidu svo lángt innþrýst í skálina, ad fótunum verdi ei nád, svo smeygir ysisetu-konan einum eda tveimur fíngrum, sínum á hverja sídu, inn med dausnum, krækir fíngrunum í smáþarmana, dregur svo med varúd ad sér í hverri hríd, og lidkar þad frá einni sídu til annarar, fyrst dausinn nidur á vid mót útgánginum, og svo lyptir hún honum aptur vel upp undir boga ísbeinsins, til ad vægja milligardinum, þar til fæturnir eru komnir í ljós, sídan fullendar hún fædínguna á sama hátt og skédur vid regluligann snúníng.

6) Þegar annar eda bádir fæturnir bjóda sig

---

Veri barnid tvøfaldt ad á dausnum, hvad skal þá gjøra?
Enn beri fætur ad, annann eda báda?
Enn sé høfudid of stort?

framm, tekur hún um þá báda í einu; ellegar sé annar beygdur upp med baki eda lífi barnsins, skal fyrst ad honum leita, og ná honum út, sídan er barnid útdregid sem í almennum snúníngi.

7) Sé hofudid heldur stórt, enn skálinn þó vel løgud, móburlífid liggi rétt, høfudid hafi sína sérligu regluligu legu, og hrídirnar séu nógu sterkar; svo þarf eingrar hjálpar vid, enn vanti eitt af ádursøgdu, má byrja med snúnínginn, hvarvid høfudid sídan verdur léttar útdregid.

8) Standi á herdunum, eda séu þær ofbreidar, svo samanþrýstast þær svoleidis sjálfkrafa, ad hægt er vidgjørda fyrir yfirsetukonuna, þegar hún einúngis med vareygd togar høfudid vel ofan á vid, enn séu þær skordadar milli ísbeinsins og kroßbeinsins, þá má hún ei ofttoga høfudid, fyrr enn lausar eru herdarnar, heldur færir hún ádur nockra fíngur inn med høfdinu til þeirrar axlar, er nidur veit, og leitast vid ad snúa henni til hlidar frá þeim stad hún skordast

---

Enn standi á herdunum, eda þær séu skordadar milli kroß- og ísbeinsins?

vid; edur og 'hún smeygir tveim fingrum upp undir ísbeinid, til hinnar axlarinnar, þrýstir á hana, og ýtir henni til hlidar, svo hún kunni ad losast; ellegar hún reynir til, ef møguligt væri, ad ná ødrum handlegg barnsins framm yfir brjóstid og út af módurlífinu, hvar eptir allt verdur rýmra.

9) Gjøri þroti sá, sem er fyri lífi barnsins, nockra mótstødu, svo leggur nærkona þurrann volgann klút ad brjósti barnsins, tekur undir axlirnar yfir um brjóstid, lidkar þad svo til og frá á allar sídur, svo hún med aflsmunum géti nád út barninu. Sé vatnsbjúgur í lífinu, er ecki vill láta undan þó barnid sé togad, þá smeygir hún einum fingri inn undir brjóstid upp til naflans, leitast vid í naflastadnum ad sprengja med nøglinni himnu þá, hvar vatnid er innan undir, svo þad géti runnid út; strax sem barnid er útdregid, er best ad láta einn læknir siá til naflastadarins.

10) Sé skálarinnar efra eda nedra op nockud

---

Sé barnsins líf þrútid, eda med vatnsbjúgi, svo þaraf orsakast mótstada, hvad er þá til ráda? Enn ef op skálarinnar eru heldur illa løgud?

illa lagad, þá ransakar yfirsetukona, hvert blag þad sé ad nockru marki; hvert hrídirnar séu of veikar og ófullkomnar; eda hvert módurlífid liggi mjøg skackt; eda hvert lega høfudsins er í nockurri óreglu; í þeßum tilfellum byrjar hún snúnínginn í tíma. Enn sé galli skálarinnar nærsta lítill, hrídirnar vidvarandi og vinni nockud á, og eckert áfátt finnist vid módurlífsins né fósturfins legu, svo má hún láta fædíngunaráda sér sjálfa.

11) Séu þeir mjúku fædíngar-limir galladir, annadhvert oft stirfnir, hardir, hnútóttir, edur hafi ønnur lítilfjørlig misßmídi; svo gengur þó fædíngin gjarnan af sjálfri sér til, hafi yfirsetu-konan jafnadargyrni á ad bada og smyrja þá med olíu edur ødrum nýum smyrslum, enn varast ad skada þá med fíngrum sínum.

12) Séu merki til bólgu í módurlífinu (§. 81.), ellegar menn eru hræddir um hana vegna ørdugleika fædíngarinnar; þá má yfir-

---

Sé galli á hinum ytri fædíngar-limum, hvernin fer þá?

Hvad skal til gjøra, þá merki eru til bólgu í módurlífinu?

setu-konan láta taka konunni duganliga blód á handleggnum, einu sinni edur optar, þridja eda fjórda hvern tíma, þar til hún finnur ad lífædin slær hægara, sárindin minka, og hrídirnar vaxa; sídan má hún leggja flanjels bót, vætta og undna upp úr heitu vatni, volga yfir allann qvidinn, skipta svo um jafnódt og hún kólnar; géfa henni med jafnadi súra og svalandi drycki, svo sem kirsiberja-súpu, tevatn, perlugrjóna-sod, hafra- eda bygg-súpu, seydi af rúgbraudi med citrónsaft blandad; ráda henni frá sterku øli, víni, brennivíni, kaffe, sterkum hita, og øllu því sem eykur blódsins ólgu; og ecki gleyma, þá møguligt er, í tíma ad vitja læknis, sem viti ad fyriskrifa innvortis bólgueydandi medøl, ad fædíngin sem fyrst megi fullkomnast.

13) Sé byrjan til bólgu í módurskeidinni eda þeim útvortis fædíngar-limum, þá er þénanligt, auk blódtøku og kjælandi lækn-

---

Hvad lengi skal halda vid med blódtøkuna?
Skal nockud leggja vid lífid?
Hvad skal konunni géfast ad drecka?
Hvad skal gjøra sé bólga í módurskeidinni?

isdóma, ad setja konuna yfir bad, tilbúid af hyldiblómstrum, sodnum í vatni, edur ad láta gufu þar af leggja í gegnum trekt inní módurskeidina, og leggja klút eda svamp vættann í sama seydi volgann yfir fædíngarstadinn.

14) Þrýckist háls hlandblodrunnar ad lífbeininu svo þvagid teppist, þá smeygir nærkona tveim fíngrum inn, upp ad høfdinu, og ýtir því frá ísbeininu þar til konan er búin ad láta þvagid, þá fyrst tekur hún út aptur fíngur sína.

§. 84.

Veri svo til í nockurri hardri fædíngu, ad þau tilfelli eda sá ørdugleiki uppáfalli, hverjum ein nærgætin og reynd yfirsetu-kona gétur ei afvendt med snúnínginum, svo annadhvert liggur vid líf módurinnar eda fósturs; þá má hún í tíma láta sækja einn reyndann læknir, er veit ad fullenda fædíngar verkid med verkfærum.

---

Enn ef teppist þvagrásin vid høfudsins áþrystíngu?

Verdi ei tøldum tilfellum bót rádin med snúníginum, hvad er þá til ráds?

§. 85.

Eptir fædínguna ber yfirsetu-konan umhyggju fyrir: ad lífga þad veika barn, ádur enn bundid er fyri naflann og skilid á millı; ad taka út fylgjuna í réttann tíma, enn ecki láta hana koma sjálfkrafa; ad láta konuna strax fá nockrı hvíld og ró, ádur enn hennar sári qvidur er vasinn; ad koma í veg fyri bólgu módurlífsins med þeim medølum, er ádur eru rádin; ad aflétta þvagsárindum konunnar, þá hún gétur ecki látid þad, leggur hún þá svamp, vættann í heitri mjólk, upp ad inngángi blødrunnar, svo gufuna leggi inn; ad dreifa þrota þeim er komid hefir í blygdunar-varirnar, og styrkja milligardinn, sem ádur hefir útþanist, med bødum af dreifandi og samansnerpandi medølum, svo sem heitu øli, ósølltu smjøri og ediki; séu limirnir mjøg svo teygdir, sárir og þrútnir, tekur hún urtaposa, fylltann med kamillu- og hyldiblómstrum, vættann í heitri mjólk,

---

Fyri hverju skal nærkona bera umsorgun eptir þeßa fædíngu?
Med hverju skal aflétta þvagsárindum konunnar?
Hvernin skal hjálpa vid þrota í blygdunar vørunum?

og vel úrkreystann, og leggur hann volgann yfir fæðíngarstaðinn. Hafi skálin nockurstaðar gengið úr liði í fæðíngunni, ræður hún konunni að halda lángann tíma við sængina, og vefja breiðu lérepts bindi yfir um mjaðmarhrínginn, til að halda beinunum saman, þar til taugir þeirra ná aptur sinni fyrri festu.

## Um þá ómoguligu eður ofugu fæðíngu.

§. 86.

Sú ómoguliga fæðíng byrjar á þeirri fastsettu fæðíngar tíð, frammfer með ófullkomnum hríðum, henni eru samferða voveifligustu tilfelli, og hún gétur aldrei fullkomnast nema með annarligri hjálp.

§. 87.

Þeßi er yfrið nærskild þeirri hørðu fæð-

Enn hafi skálin gengið úr liði í ofraun fæðíngarinnar?
Hvernin er sú ofuga fæðíng?
Í hverju mismunar hún frá hinni hørðu?

íngu, frá hverri hún alleina mismunar í því, ad hana vantar lángtum meir til ad géta fullkomnast af egin vidburdum; þeckist þessvegna af sjølda og stærd galla þeirra, sem hana orsaka, og af limanna óreglulign umbreytíngum í fædíngunni.

§. 88.

Þeir helstu gallar í innbyrdis samkomulagi limanna eru:

Í fyrsta máta: ad módurlífid liggur svo mjøg skackt, ad þess botn víkur lángt frá midpúnktslinn skálarinnar, helmíngur módurmunnans er teygdur upp fyri hennar barm; svo ad fóstrid í fædíngunni þrýstist og ber ad tédum barmi, enn kémst ei nidur í hol skálarinnar.

Í annan máta: ad fóstrid annadhvert hefir ønugliga legu edur óvenjuligann vøxt, svo þad þessvegna gétur ei pressast í gégnum skálina; svo sem:

1) Þegar einhvern annann lim enn høfudid,

---

Hvar af þeckist hún?
Hverjer eru þeir helstu gallar í limanna innbyrdis ásigkomulagi, sem orsaka þessa fædíng?

dausinn edur fæturnar, ber ad módurmunnanum.

2) Þegar höfudid ad sönnu ber ad, enn ennid snýr ad ísbeininu, og hnackinn kémur fyrst ofan í skálina; edur ennid snýr ad kroßbeininu, svo andlitid sígur fyrst nidur; edur ennid snýr ad mjødmunum svo þad kémur fyrst nidur í skálina; þegar andlitid ber ad, enn hakan snýr ad því heilaga beini, eda til hægri eda vinstri hlidar; þegar bakhöfudid edur hnackann ber ad, enn frammhöfudid snýr ad ísbeininu, eda til annarar hverrar hlidar í skálinni; þegar eyrad eda vángann ber ad; þegar höfudid og bádir handleggirnir koma undir eins ofan í skálina; þegar höfudid edur allt fóstrid er lángtum stærra enn svarar vídd skálarinnar.

Í þridja máta: ad skálin er svo þraung, og gallar hennar svo stórir, ad of litid rúm er fyri fóstrid.

Í fjórda máta: ad þeir mjúku fædíngarvegir, vegna þeß þeir eru samangrónir, eda vanskapadir, eru aldeilis mótstædilegir fædíngunni.

§. 89.

Þær óreglúligu umbreytíngar, sem ské í ómøgulígum fædíngum, eru þeßar:

Þegar einúngis módurlífid liggur mjøg skackt, svo byrja hrídirnar mjøg óregluliga og óskilmerkilíga; módurmunninn þenst ei jafnt út, og hans þynnta hálfa rønd togast upp eptir, enn hinn partinn sem ei þynnist, finna menn í módurskeidinni; fornistid er aflángt ad finna, og hángir ofan í módurskeidina; belgurinn sprýngur snemma; hofudid þrýstist á skack, ofan á og út yfir barminn á efra opi skálarinnar; eptir því sem lídur á fædínguna, mínka hrídirnar; sárindin aukast med ávaxtarlausum þreyngíngum; hofudid samanþryckist og þrútnar, enn midast eckert nidur í hol skálarinnar; þeßvegna hætta vidburdir fædíngarinnar, og þau skadligu tilfelli, sem þar af fljóta, gjøra endir á fóstursins og konunnar lífi.

Þegar fóstrid alleina liggur øfugt, og frammbídur annann lim enn høfud, dans eda fæt-

Hverjar óregluligar umbreytíngar koma af módurlífsins mjøg skøckulegu í þeßháttar fædíngum? Enn af því þegar fóstrid liggur øfugt?

ur, byrja hrídirnar án nockurrar reglu, eru venju framar sárar, án sérligra þreynginga; módurmunninn opnast í hríng; forniſtid er ad finna meir ávalt enn flatt, og stundum frammjótt; belgurinn sprýngur snemma; sá adberandi limur, er í fyrstu ei alltíd finnst med ransókninni, þryckist nidur í skálina og þrútnar; þá álídur fædínguna, hætta hrídirnar, og vidburdirnir endast sem fyrr er frá skýrt.

Þegar høfudid ber rángt ad, med ennid mót ísbeininu, byrja hrídirnar þeckjanligar, og nockud óregluligar, þó ætíd séu þær veik- ar og ónógar; módurmunninn opnast í hríng, og allur jafnt; forniſtid er flatt ad finna; frammhøfudid þrútnar og stend- ur lengi óbifanligt í efra opi skálarinnar; þá álídur fædínguna, sleppur bakhøfudid allrafyrst nidur í skálina ad aptanverdu, frammhøfudid beygist med høkuna ad brjósti fósturſins, og vid þeßa umbreytíng hindrast bakhøfudid um sídir vid þad nedra op, og gétur ei beygst upp frá dausbeininu framm

Enn þegar høfudid ber ad med ennid mót ís- beininu?

undan boga ísbeinsins; hversvegna hrídirnar og fædíngin hneckist og tekur enda.

Þegar höfudid ber rángt ad, med ennid mót krossbeininu, byrjar fædíngin á sama hátt sem fyrr; þar eptir nidurþryckist frammhöfudid og þau fremri hausamöt allra fyrst, enn á medan stendur bakhöfud fast vid ísbeinid, og beygist aptur á bak barninu; þegar nú frammhöfudid á sagdann hátt er pressad nidur undir þad nedra op, og gétur ei vegna bakhöfudsins beygt sig nedan frá og fram undan boga ísbeinsins, svo minka hrídirnar, og fædíngin í gégnum þad nedra op verdur ómögulig.

Eins er ásigkomid med hinar adrar höfudsins skéckju legur; nefniliga: þá ennid snýr til hlida, andlitid edur hnackann ber ad, og s. fr.

Þegar eyrad ber ad, og andlitid snýr framm eda aptur, byrjar fædíngin mjög ófullkomliga; módurmunninn opnast í hríng; fornistid er flatt átektum; enn þá minnst var-

---

Hvada umbreytíngar koma, þá ennid snýr mót krossbeininu?
Enn þegar eyrad ber ad?

ir, hætta hrídirnar, og høfudid preßast eigi nidur í holid; þarámót: snúi andlitid til annarar hverrar hlidar, vara hrídirnar lengur, og høfudid preßast nockud dýpra nidur; enn undir eins og þad er komid í hólid, hættir módurlífsins verkun, svo eckert verdur af fædíngunni.

Þegar høfudid er teluverdt stærra enn ad sambýdur vídd skálarinnar, byrja hrídirnar ófullkomliga, enn vara þó svo lengi sem nockud undan lætur; enn undir eins og eckert géfur lengur eptir, hætta verkanir módurlífsins vid mótstøduna, semuleidis fædíngin

Þegar orsøkin er alleina í skálinni, verdur mótstadan óyfirvinnanlig í fædíngunni, og hrídirnar hætta fyrr eda seinna, eptir því, hvert gallinn er í hinu efra edur nedra opi.

Þegar alleina þeir útvortis fædíngar limir orsaka óyfirvinnanliga mótstødu, svo frammfer fædíngin regluliga til þeß upp á þad sídasta, þá hrídirnar mínka, og um sídir øldúngis hætta.

---

Hversu gengur fædíng þeßi, þá høfudid er stærra enn sambýdur vídd skálarinnar?

Enn þegar skálin einúngis veldur mótstødunni?

Enn þegar hinir útvortis limir orsaka hana?

§. 90.

Fyrir utan øll þau hættuligu tilfelli, sem í hørdum fædíngum (§. 81.) uppáfalla, skédur þad og í þeßum øfugu fædíngum, ad módurlífid rifnar, og ætíd er hinni fædandi og fóstrinu óbrygdult lífstjón búid, ef í tómi má vidleika.

§. 91.

Sé módurlífid mjøg ójafnt útþanid, meir þynnt og veiklad í einum stad enn ødrum, og mótstadan, vegna skálarinnar þreyngsla, eda fósturins stærdar, er ásamt þeßu óvenjuliga mikil, svo kann módurlífid:

1) Annadhvert, vegna fædíngarhrídanna ofbeldissómu verkana og mótstødunnar sterkleika, eptir þad forniſtid er sprúngid, svoleidis ad merjast og kreystast af þeim hørdu limum fóstursins, ad þar af komi bolga í þann part módurlífsins, sem mest lídur, hvar af pínan eykst í þeim stad, sem bólgan er, uns úr þeßu verdur drep, svo módlífid rifnar þar um sídir.

---

Hvad hættuligt tilfelli fylgir þvílíkri fædíngu framar annari?

Hverjar eru sidvanaliguſtu orsakir til bólgu módurlífsins í þeßkyns fædíngum?

2) Ellegar að høfuð fóstursins kann að þryckjast svo hardt á barm skálarinnar, að barnið fái þaraf sinateygjur, og kann það þá með sinu sparki og spyrníngum í móðurlífið, áður enn fornistið er sprúngið, að valda því, að í móðurlífið hlaupi bólga og drep, svo það rifni um síðir þar af.

3) Kann yfirsetu-konunnar of sterk meðferð, þá hún byrjar of seint með snúníngìnn, og þreyngir høfðinu með afli í mót þeim bólgna stað, að valda því optliga, að móðurlífið rifni.

§. 92.

Móðurlífið rifnar þeßvegna optast við hálsinn, af því hann líður mestann núníng af barmi skálarinnar; þó rifnar það stundum í botninn, þegar fóstrið spyrnir í hann í sinadráttar køstunum, og má ætíð óttast að móðurlífinu sé búið við að rifna: þá þær frammsærðu orsakir eru til staðar, og hin fæðandi finnur sífelda vaxandi og brennandi pínu í einum

---

Hvað verður úr þeßari bólgu megi hún ráða sér?
Kann yfirsetu-konan að valda því, að móðurlífið rifni?
Hvar rifnar móðurlífið gjarnast?
Hver teikn géfa til kynna, að það muni rifna?

stad í lífinu, sem ætíd espast í hrídunum; enn sé þad rifnad, fellur konan í aungvit, enn raknar þá vid aptur, pínan hverfur allt í einu, hvar á ofan fylgja nockur blódlát, og svo umbreytist øll løgun qvidarins, þar fóstrid ad nockru edur øllu leiti sleppur út í gégnum rifu módurlífsins inn á milli þarmanna, hverju fylgir þad mesta ómegin og brádur daudi.

§. 93.

Í þeßum ofugu og ómøguligu fædíngum er eingrar hjálpar ad vænta af náttúrunni, enn yfirsetu-konan má ransaka limanna galla og þau fyrifallandi tilfelli, svo hún géti yfirvegad, hvert þau séu svo stór, ad fædíngin eíngan veginn ské kunni af sjálfri sér; þeßu næst má hún tilreida þad hún naudsynliga med þarf (§. 58); grípa sídan til þeirrar vißustu hjálpar, sem er ad snúa barninu á réttum tíma, edur án tafar ad láta sækja læknir, sem med verkfærum veit ad hjálpa vid fædíngunni.

Finni nærkona, ad skálin sé svo ónáttúr-

Hvar af þeckist, ad þad allareidu sé rifnad?
Hjálpar náttúran sér nockud í slíkum fædíngum?
Hvad á yfirsetu-kona þá ad gjøra?
Sé skálin of þraung, og módurlífid rétt vid ad

liga þraung, ad hún ei géti komid hendinni í gégnum hana, edur og ad móðurlífid er komid undir þad ad rifna, þá má hún leita hjálpar í tíma, svo barnid, annathvert med verkfærum edur og med annari vißri handlæknis tiltekt verdi útdregid, enn eingan veginn í þeßu tilfelli voga ad snúa því. Enn sé móðurlífid allareidu rifid, má hún samt ecki skilja konuna eptir hjálparlausa, heldur leitast vid ad ná enn nú fósturſins fótum í móðurlífinu, til ad draga þad út á þeim; strax sem barnid og fylgjan eru út tekin, má hún færa þá útfallnu þarma gégnum móðurlífsins rifu, inní lífid aptur, halda sídan hendinni svo lengi í móðurlífinu, til þeß ad þad hefir dregid sig saman, leita svo med flýti læknis hjálpar.

§. 94.

Eptir þeßar öfugu fædíngar, er fóstrid

---

rifna, má þá ei leitast vid ad snúa barninu strax?

Hvad skal gjöra, þá rifnad er móðurlífid?

Hvernin skal fara med konuna ad afstadinni þeßari fædíngu?

medhöndlad á sama hátt sem eptir hardar fæd-
íngar (§. 55).

## Um þær vegna uppákomandi tilfella hættuligu fædíngar.

§. 95.

Auk þeirra hættusemda, er leida af fædínganna ördugleika, kunna þar fyrir utan í öllum fædíngum óforvarandis uppá ad koma tvö voveifligtilfelli, sem skada vídburdi fædíngarinnar og stofna bædi módurinni og barninu í stærstu hættu, jafnvel þó bædi módurlífsins fósturlins og skálarinnar ásigkomulag sé reglu-ligt, og þessi eru blódlát og sinadrættir.

§. 96.

Blódlátin koma: þegar módurkakan ad nockru leiti eda öldúngis losnar; þegar naflastrengurinn eda nockur æd módurkökunnar slitnar.

---

Hver eru þau hættuligustu tilfelli í öllum fædíngum, enda þótt orduligar séu?
Hverjar orsakir eru til blódlátanna?

§. 97.

Þau tølnverdustu blódlát eru tvennslags:
1) Það sterkasta og voveifligasta er það sem innfellur allareidu á sídsta mánudi medgaungutímans, þegar nedri partur módurlífsins er tekinn til ad þynnast og þenjast; það hættir einstaka sinnum, enn kémur aptur því ákafara og sterkara, sem nær er komid fædíngunni, þartil þær eiginligu fædíngarhrídir byrjast; þá eykst blódlátid svo mjøg, ad bædi konu og fóstri er brádur daudi búinn, megi fædíngin sjálf vid leika.

Orsøk þeßa svo snemmgjørda blódláts er, ad módurkakan er losnud, og situr yfir módurmunnanum í hálsi módurlífsins. Þeckist það: af þeim undanfarandi blódlátum í hinum sídasta mánudi; af því lifrada blódi, sem finnst í módurskeidinni; af módurmunnans stakliga þycki, flatri og óreglurligri løgun, þá byrjud er fædíngin; af þeim

Hvad margslags eru þau?
Hvert er það sterkasta og voveifligasta?
Hver er orsøk til þeßa blódláts?
Hvar af þeckist, ad módurkakan situr yfir módurmunnanum?

blauta, svampkénda og ósléttu klump, er í stad belgja og fornistis uppfyllir móðurmunnann; af hrídunum, sem frá öndverdu eru mjög hægar, og minka allt af eptir því sem blódmißirinn vex.

Þeßi blódlát valda sterkum aungvitum, hastarligu og daudligu magnleysi, og ad sídustu sinadráttum, er enda med daudanum, utan fædíngin frammqvæmist.

2) Þad seinna og lángsamara blódlát byrjar þá hid fyrsta, er fædingin er byrjud, fyrr eda seinna; vex aldrei svo ákaft né hastarliga; stillist milli hrídanna, og verdur sjaldan svo fárligt, utan þad uppá komi mjög snemma, vari sídan ákaft og lángvaranliga.

Orsökin til þeß er: ad módurkakan, sem nú situr lengra frá módurmunnanum, er losnud í fædíngunni; og því þeckist þetta frá hinu fyrra þaraf sérdeilisliga, ad eigi finnst módurkakan í módurmunnanum.

---

Hverju veldur þetta blódlát?
Hvenær kémur þad seinna og lángsamara?
Hver orsök er til þeß?
Af hverju þeckist þetta frá hinu?

§. 98.

Þegar nærkona hefir ransakad orsøkina til blódlátsins, þá má hún tilreida fædíngarfletid, leggja bindid lausliga yfir um lífid, og hafa vid hønd hluti þá, er þurfa til ad lífga og styrkja konuna og barnid; umframm allt færi hún konuna tímanliga í fletid, rádi henni til stærsta kyrrlætis, og fyribjódi henni alvarliga allt þad er eykur ólgu blódsins.

Undir eins nú ad blódlátid eflast, konan hvítnar upp, fær sudu fyrir eyrun og dimmu fyrir augun, sláttur lífædarinnar verdur linur, og valla finnanligur, hendurnar kólna, og yfir hana vill lída; skal yfirsetu-konan ei bída eptir hrídunum, eda því, ad módurmunninn þynnist edur útþenjest, heldur strax færa hendina med vareygd lángsamliga upp eptir módurskeidinni, gætiliga útvíðka módurmunnann, sem léttiliga lætur undan, enda þótt hann virdist mjøg svo

---

Hvad hefir nærkona hér ad gjøra?
Skal hún lengi láta dragast, ad flytja konuna til flets?
Hvad rædur hún henni sídan?
Enn ef dregur af konunni meir og meir, hvad skal nærkona þáráda af?

þyckur; þar eptir skal hún náqvæmliga ransaka, hvar móðurkakan er laus, svo hún géti fært hendina á sama stað inn, milli móðurkökunnar og móðurlífsins, allt upp til fótanna, þar blóðlátið mundi vaxa, ef hún losaði móðurkökuna annarstaðar enn hvar hún allareiðu er laus; þegar forniftið er þá sprengt, tekur hún um báða fætur, og dregur barnið fljótt út.

Eptir fæðínguna tekur hún strax fylgjuna, dregur bindið að qviðnum, varast þó að hræra konuna, svo blóðlátinu og aungvitunum kunni þarmeð að verða hamlað, þar eptir leitar hún í einum hasti allra þeirra meðala, til að stilla blóðlátið, um hver áður er gétið í hinni of hastarligu fæðíngu. Þá búið er að lauga og endurnæra barnið, ber hún konuna, þó ecki fyrr enn henni er orðið skickanliga heitt, og hún er vel komin til krapta, varliga og með gætni í rúmið, og lætur hana halda sér í stærstu makindum, þángað til eingin hætta er meir i vændum.

---

Hversvegna skal hún fara þar inn, sem móðurkakan er laus?
Skal snúa barninu í þeßari fæðingu?
Hvað er að gjöra eptir fæðínguna?

Í hinu sídara blódláti yfirvegar nærkona, hvert blódlátid sé ákaft, hvert þad byrje snemma, og hrídirnar veikliſt vid þad; sé svo, má hún tímanliga snúa barninu; enn sé blódlátid þolanligt, hrídirnar vidvarandi og verkandi, og allir limir hafi tilbæriligann jøfnud, svo lætur hún fædínguna ské af sjálfri sér; enn ef hrídirnar skyldu seinna meir óforvarandis hætta, eda blódlátid verda ákafara og hættuligra, þá lætur hún sækja læknir, til ad fullkomna med taunginni fædínguna. Eptir fædínguna ber hún sig ad eins og í hinu fyrra blódláti.

§. 99.

Sinateygjur koma vanaliga hjá þeim, er fyrsta sinni fæda, af of mikillri vidqvæmni í módurlífsmunnanum og þeim ytstu fædíngarlimum, hversvegna þeir eingva útvídkun þola.

§. 100.

Ad einni konu séu búnar sinateygjur, þeckist: þegar hrídirnar byrja med óvenjuligum

---

Hvad er athugaverdt um hid sídara blódlát?
Má fædíngin med þeßu sídara blódláti nockurn tíma ráda sjálfri sér?
Af hverju helst koma sinateygjur?
Hvar af þeckist, ad þær ætli ad koma?

offa, yfirmáta sárindum, litilleika, uppköstum, ótíma geispum, hnerrum, skjálfta í útlimunum, augun rángbvolfast, tennurnar gnýsta, og þegar sinarnar fara ad kippast vid í úlnlidunum, þá eru teygjurnar nálægar, fara þær vaxandi med ofbeldisligum og óvidrádanligum hræríngum í limunum, hvar med mißist bædi vit og tilfinníng, og konan froduféllir.

§. 101.

Þegar limirnir hafa sinn rétta jöfnud og ásigkomulag, svo byrjar fædíngin rétt orduliga og fullkomliga, þángad til sinateygjurnar byrja, enn þá mínka smámsaman hrídirnar, eptir því sem teygjurnar vaxa, til skipta, meir og meir; módurmunninn opnar sig krínglótt, enn mjög lángsamliga; sú fædandi mißir ad sönnu rádid í teygjunum, enn vari þær eigi lengi, og séu hægar, nær hún því aptur ad þeim afstödnum, þángad til teygjurnar verda ákafari, þá tapast rænan einnig ámilli þeirra; höfudid midast stundum nidur í skálina fyrr enn teygjurnar byrja; og þá þær fyrst koma svo seint, skédur fædíngin af sönnum fædíngar hrídum, er þá eru samferda, og sú fædandi kémur litlu eptir á til rænu sinnar, þá fædíngin er fullendud.

Hvernin frammfer fædíngin med þeßu tilfelli?

Enn byrje tegjurnar mjög snemma, og vari ákafliga fyrrenn móðurmuninn fylliliga opnar sig, og höfdinu skýtur nidur, svo opnast hann ysrid tregliga, enn hrídirnar styttast og hætta eptir því sem tegjurnar vaxa, þángad til sú fædandi annadhvert lætur lífid í þeim, eda þó fædíngin ad sönnu fullendist, svo vara samt tegjurnar opt vid, og konan nær ei rænu sinni aptur, heldur deyr eptir fædínguna. Þetta tilfelli er ei einúngis mjög hættuligt fyri þá fædandi, heldur og einnig fóstrid, sem í tegjunum er undirkastad hinni stærstu hættu, allra helst ef fornistid er sprúngid.

§. 102.

Þá nærkona af ádursögdum teiknum fær þeckt, ad konan muni fá sinategjur, má hún skyndiliga leitast vid, ad koma í veg fyri þær, lætur því taka konunni duganliga blód, og í tíma sækja læknir, sem med sefandi medölum veit ad stilla þau ofurligu sárindi og vidqvæmni í limunum, er orsaka þeßa tegund af slagi. Ef svo luckuliga vildi til, ad módur-

---

Er þetta tilfelli svo hættuligt?
Hvad hefir nærkona hér ad gjöra?
Hvenær er leifiligt ad brúka snúnínginn?

munninn í hrídunum, vegna vatnsins ofurnægdar, opnadi sig svo mikid, fyrr enn hofudid sycki nidur í holid, ad hendin, án þeß ad teygja edur spenna þá yfrid vidqvæmu limi of mikid, yrdi med lempni færd inní módurlífid, svo snýr nærkona barninu, og færir þad svo fljótt út sem møguligt er. Enn sé hofudid allareidu svo djúpt nidursígid í skálina, ad ad enginn snúníngur kunni ad ské, má barnid færast út med taunginni.

Eptir fædínguna má nærkona gaumgæfa þann almenniliga adbúnad, og ef sinateygjurnar enn nú vidvara, eigi forsóma ad taka læknir til ráds.

---

## Um tvíbura fædíngu.

§. 103.

Tvíbura fæding kallast sú, í hverri tvø børn fædast hvert eptir annad med þeirra fylgjum.

---

Enn sé høfudid of djúpt nidur sígid í skálina, hvad skal þá gjøra?

Hvada medferd skal brúka eptir þeßa fædíngu?

Hvad er tvíbura fæding?

Þeßa fæding ber ad tveim eda þrem vikum fyri þann rètta tíma, og byrjar venjuliga med lángsømum enn þó regluligum hrídum, hvar vid bædi børnin, ef limirnir annars hafa sitt rètta ásigkomulag, fædast sjálfkrafa; enn sèu hrídirnar eda barnanna lega óordulig, fædist ei þad fóstur af sjálfu sèr, sem hefir óorduliga legu.

§. 104.

Þegar tvíburar eru, svo eru og tvø ordulig egg í módurlífinu, er liggja hvert upp med ødru; því sèrhvert fóstur er umvafid sínum eginn belg og vatni, og hefir sína egin módurkøku, eru þær annadhvert samanhángandi, eda hver fyrir sig adskildar; nema ef børnin eru samangróin, þá innilykjast þau bædi í einu eggi.

§. 105.

Eckert óbrygdult kènniteikn géfst til tvíbura, fyrr enn þad fyrsta barn er fædt, þá þeckist hins annars nærvera í fædíngunni þar-

---

Hvenær ber hún ad?
Fædast tvíburar jafnan bádir af sjálfum sèr?
Hvernin liggja tvíburar í módurlífinu?
Géfst nockurt óbrygdult kènniteikn uppá tvíbura fyrirfram?

af; ad qviðurinn finnst enn nú hardur og hálfskullur; það fædda fóstur er lítið; belgurinn og vatnið, sem umkríngir það annað barn, kémur á ný út í móðurmunnann; hríðirnar viðvara, og hið annað fóstur kémur í ljós.

§. 106.

Þá nærkona er komin að reynd um, að tvíburi er eptir í móðurlífinu, þá hið fyrsta er áður af sjálfu sér eða með snúnínginum fædt, og naflað; þá lætur hún fylgju hins fyrra sitja kyrra, enn bindur um endann á naflastrengnum, sem til hennar gengur, á meðan hún færir hönd sína inní móðurlífið, sprengir fornisti þeß seinna barns, og útdregur það svo á fótunum; því jafnvel þó hið seinna fóstur hafi orðuliga legu og kunni þeßvegna að fæðast af sjálfu sér, svo er þó, vegna móðurlífsins óorðuliga samdráttar er fylgir á eptir, og fóstursins skeckju niðurgaungu í skálina, óhultast að snúa því.

---

Hvenær og af hverju þeckist, að þeir séu í vændum?
Skal strax taka fylgju þeß fyrra barns?
Hversvegna skal strax binda um naflastreng þeß fyrra barns áður enn hitt fæðist?
Hvers vegna skal snúa því seinna barni, þó það liggi rétt?

Eptir fædínguna, þá bædi børnin eru fædd, rannsakar hún utan til á qvidnum, hvert módurlífid hafi vel samandregid sig, ádur enn hún sækir fylgjurnar, hverja eptir adra; nema svo bæri til, ad sterkt blódlát uppá kæmi, þá mætti hún hrada sér ad taka þær, og sídan umvefja hinn slapandi qvid, ádur enn hún flytur konuna.

## Um ótíma-burdi.

§. 107.

Ótímabæra fædíngu ber ad, ádur enn sú orduliga fædíngar tíd er komin, med eda án nockurs undangángandi edur medfylgjandi blódláts, er opt byrjar nockrum døgum fyrr enn formerkist til léttasóttarinnar, veikjast hrídirnar svo mjøg þar vid og dragast á frest, ad fædíngin fullendast med lángvaranligri pínu og þjáníngu, enn í þeim orduligu og fulltída fædíngum.

§. 108.

Þessar kunna ad adgreinast í tvennslags:

---

Hvernin medhøndlast konan á eptir?
Hvad er ótíma-burdur?

1) Í þá er skédur fyri tímann, (kallast þá barnid eigi fullaldra); hún innfellur milli þeß sjøunda og níunda mánadar, þá eggid enn nú er ófullkomid, jafnvel þó fóstrid géti lífi haldid. Og

2) Í þá eginliga ótímabæru, er og svo kallast misburdur eda fósturlát; þeßi innfellur milli þeß þridja og sjøunda mánadar; og er þá fóstrid of vanburda til ad géta lífi haldid; þær sem svoleidis fæda, kalla menn ad fái ófall, eda fædi í blódlátum, ellegar hjá Dønum: ad þær gjori umslag, eda fari illa.

Reynslan kénnir, ad þær flestu fæda optast nær í blódlátum í enda hins þridja mánadar edur hins sjøtta, helst á þeim døgum, er konan, utan barnburdarins, var vøn ad fá sína mánada-rás, eda tídir.

§. 209.

Hvertveggja byrjar med undangángandi blódláti, svo opt sem módurkakan er losnud, sem ské kann:

---

Hvernin adgreinist þvílík fæding?
Hverr er munur á þeßum tveimur?
Hvenær kémur ófallid optast nær uppá?
Hvernin byrja þeßir ótíma-burdir?

1) Af of miklu blódríki eda hreifíngu, hvar af ædarnar slitna.
2) Af allri útvortis áreynslu og hnjaski er lísid verdur fyrir.
3) Af sterkum líkamans, og
4) Sinnisins hræríngum.

Sé þarámót módurkakan ecki losnud, byrja þær án blódláta.

§. 110.

Allt hvad géfur módurlífinu orsøk til ad kypra sig saman, eda veldur sinadrátta leidíngum í botni þess fyrr enn komin er sú rétta tíd, orsakar ótímabæran burd; þannig kunna:

1) Blódlátin, sem fylgja losnun módurkøkunnar, ad géfa módurbotninum orsøk til ad draga sig saman, og veikja módurmunnann, svo ad af þeim idugligu samdráttum skýtst eggid um sídir út.
2) Of mikill strídugleiki og vidkvæmni módurlífsins hamla því ad géta þolad þá tilbæriligu útvídkun af egginu.
3) Of mikill linleiki módurmunnans orsaka, ad hann of fljótt lætur undan eggsins áþrýstíngu.

---

Hverjar orsakir valda ótíma-burdi?

4) Af alskins heiptugum, teygjufullum og verkjamiklum sjúkdómum, sérdeilis í qvidnum, kann módurlífid ad setjast í hræríng.
5) Sømuleidis af øllum sterkum sinnis hræríngum.

§. 111.

Þeir ótímabæru burdir, sem býrja og frammfara med blódlátum, vilja optar til, og eru fárligri enn þeir, sem ské án blódláta; enn blódlátin eru almennt ad segja eigi svo fárlig í þeßum fædíngum sem hinum, er ské einúngis litlu fyrir tímann, því ædarnar standa ei eins á blístri; þeßvegna: því meir sem hin ótímabæra fædíng dregst og nálgast venjuligum fædíngar tíma, því hættuligra er blódlátid; sérhverr ótímaburdur er fárligri fyri konuna, heldur enn sá, er skédur í réttann tíma, med sama slag, vegna þeß ad blódlátin, sem fylgja med, veikja hrídirnar og krapta konunnar; módurmunninn er ei nægiliga þynntur og umbreyttur, heldur útvídkast lángsamar, og med

---

Er blódlátid í þeßum fædingum jafn hættuligt sem í hinum, er ské einúngis fyri tímann? Hversvegna er ótímaburdur hættuligri enn tímabær, sem skédur á líkann hátt?

meiri pínu; orsakirnar sem valda þeßum fædíngum, eru optast nær voldugar, og þeß fárligri; eingin töluverd handbjörg verdur sýnd edur brúkud í þeim eginligu ótímaburdum; og fylgjan verdur lángtum lengur eptir, og fædist lángsamligar, heldur enn í þeim er ské í réttann tíma.

§. 112.

Þeckja má, ad ein kona muni láta fóstri, þegar hún verdur yfirfallin af hrolli, kulda í limunum, magnleysi, og blódláti af módurlífinu, er lætur á milli, enn er sterkara enn mánadatídirnar; fylgi med því nockurskonar þreyngíngar, komi blódid í klumpum nidur af módurlífinu, og sídan réttar fædíngar hrídir, vid hverjar módurmunninn opnast og útþenst, samt belgurinn og fornistid kémur í ljós; svo er fædíngin allareidu byrjud, og varir vid, þar til annadhvert eggid med heilu og höldnu útþrýstist, edur og fornistid sprýngur, og fóstrid kémur í ljós.

---

Verdur nockurri handbjörg vidkomid í eginligum ótímaburdum?
Af hverju þeckist ad ein kona muni láta fóstri?

§. 113.

Strax sem nærkona af ransókninni er áskynja ordin af fyrrsøgdum teiknum, ad ein kona muni fæda fyri tímann, svo tilreidir hún allt, sem í ødrum tímabærum fædíngum, og forsómar ecki, vegna blódlátanna, í tíma ad leggja hana í fædíngar-fletid, og láta hana liggja sem róligast; þarnærst brúkar hún, í þeßum ótíma fædíngum, sømu vidburdi sem í ødrum sama slags tímabærum, annadhvert eptirlætur hún þær náttúrunni, þegar allt ad skøpum gengur, eda hún grípur til snúníngsins, þá eitthvad er øfugt og ófullkomid.

Þegar snúníngsins þarf med í þeßum fædíngum, þá er rádligast: ad nærkona ecki dragi út handleggina, heldur láti þá leggjast upp med høfdinu, svo þar med verdi hindrad, ad módurhálsinn kypri sig utan um hálsinn á fóstrinu, og svoleidis bægi høfdinu frá ad koma í ljós.

Eptir fædínguna er rádligast: ad láta

---

Hvenær skal leggja konuna í fædíngar-fletid?
Hvernin skal þá fædandi annars medhøndla?
Er hér nockud athugaverdt um snúnínginn, framar enn í ødrum fædíngum?

fylgjuna koma sjálfkrafa, þó það gángi lángsamliga, þar móðurkakan um það leiti er fastari við móðurlífið, enn á mót endirnum, og hendinni verður eigi svo hægliga innkomið í móðurlífið; enn sé svo, að blóðlátið sé mjøg sterkt, þá kunna menn, ef þetta skéður að liðnum þeim sjøunda mánuði, að færa með varengð hendina inn, og ná fylgjunni.

Fóstrið umhirðist og laugast í volgri mjólk og vatni, sé það enn nú mjøg vanburða; halda skal á því tilbæriligum hita, og verja øllum meðølum til að viðhalda þeß lísi.

§. 114.

Að barnið eigi sé fullaldra, þeckir nærkona á því: 1) Að barnið er ofurlítið, og ecki lengra enn hálf alin. 2) Að það vegur minna enn 5 ℔. 3) Að hørundið er allt ofur rauðleitt. 4) Kroppurinn, einkum um hrigginn, handleggina og kinnarnar, er þakinn smáum og mjúkum hárum, sem líkust eru smágerðustu ull. 5) Limir fóstursins eru ei full-

---

Skal fylgjan takast eptir fæðínguna?
Enn sé blóðlátið mjøg sterkt, hvað skal þá gjøra?
Hve skal að fóstrinu búið?
Hvaraf má þeckja að barnið sé eigi fullaldra?

burda, hefir þad þeßvegna hverki sína réttu þyngd né stærd. 6) Neglurnar eru ei heldur fullvaxnar. 7) Hausskélin er mjøg þunn og lin, og høfudbeinin gánga hægliga á misvíxl. 8) Þad fremra hausamót er mjøg stórt og audsjáanligt. 9) Andlitid lítur illa út, er hruckótt og elliligt. 10) Á pillt-børnum er púngurinn raudur, þrútinn og tómur. 11) Barnid sefur sífeldt, svo lengi þad er ei vakid, og dugir eigi til ad sjúga. Hér ad auk má nærkona í fædíngunni adgætt hafa, hversu nedsti partur módurlífsins var umbreyttur, svo hún þaraf ráda kunni þad rétta skeid medgaungutímanns, á hverju fædíngin skédi, beri svo til, ad þar um verdi fyri rétti hennar vitnis leitad.

§. 115.

Þegar ein kona ætlar ad láta fóstri, má yfirsetu-kona:

1) Leitast vid ad hindra skadrædi blódlátanna;

Géfur módurlífsins nedra hluta umbreyting nockra upplýsíng í þeßari sök?
Hvar til skal nærkona vita þetta?
Hvernin skal medhøndla eina konu sem ætlar ad láta fóstri?

med því að halda konunni til að vera í kyrrð og ró, forðast allar sterkar geðs hræríngar og heitandi meðøl, svo sem vín, brennivín, kaffe, sterkt øl, hita, og s. fr.; þekja qvið konunnar, fæðíngar staðinn og lendarnar með línklæði, vættu í køldu vatni blønduðu ediki eða sýru; binda lausliga með breiðu bandi um fætur og handleggi, til að hindra rennsli blóðsins upp eptir; láta opna þeim blóðríku æð á handlegg; gefa konunni súra kjælandi drycki, með cítrónsaft, ediki eður øðrum súrum vaxta vøkvum blandaða, svo sem af soðnum kirsiberjum, ribsberjum, eplum og s. fr.; hindra með stólpípu, að hverki vindar né búkteppa orsaki konunni rembíng í lífinu, hvar við án efa espast rennsli blóðsins; flýta sér að spyrja læknir til ráðs í tíma, einkum hafi konan af blóðmißirnum tapað allareiðu kreptum sínum, svo hendur hennar taka að kólna, andlitið að blikna, lífæðin að veik-

---

Þegar hindra á blóðlátið, hvað skal hún forðast?
Sé hún blóðrík, hvað skal þá gjøra?
Hve skal fremur varna blóðlátum?

jast og hún ad falla í ómegin; því þá verdur ad géfa styrkjandi medøl, svo sem melißu-, perlu-, canelbørks- edur krullmyntu-vatn, edur og Hoffmanns-dropa; enn eingin blódtaka er leyfilig utan med rádi og vilja eins reynds manns.

2) Stilli ei þeßi medøl blódlátin, ádur enn hrídirnar koma, svo verdur ecki ófallinu hamlad, heldur eptirlætur nærkona náttúrunni fullkomnun fædíngarinnar alleina, þared fóstrid gétur fædst án snúníngsins, hvernin sem þeß legu annars er háttad, og yfirsetu-konan þar ad auk med eingu móti gétur fyri þann sjøunda mánud komid hendi sinni inn í gégnum þann þraungva módurháls, án þeß hann skaddist; og med tveimur fingrum verdur eigi annad gjørt, enn reynt til ad losa ad eins eggid frá módurmunnanum og svoleidis ná um þad, ad dregid verdi út.

---

Sé hún máttdregin og kraptlitil, hver medøl eru þá brúkanlig?

Stillist ei blódlátid, svo ófallid verdi hindrad, hvad er þá ad gjøra?

Eptir fæðínguna má láta fylgjuna vera, til þeß hún kémur sjálfkrafa.

Yfirsetu-konan má og ráða konunni til þeirra meðala, sem hindra kunna ófall í øðru sinni.

## Um þá følsku lausn.

§. 116.

Þær følsku lausnir innfalla optast við enda þriðja mánaðar, með undangángandi blóðlátum; þær byrja og frammfara með réttum hríðum, þó ófullkomnar séu, hverjar venjuliga útfæra einn kjøt-kéndann eggmyndaðann klump af móðurlífinu.

§. 117.

Sjaldan innfellur fæðíng þeßi seinna enn í þeim þriðja mánuði; því þegar móðurlífið eptir fóstursins dauða fljótar útþenst enn eggið, svo slitna hægliga æðar þær, sem láu mill-

Hvernin skal hага sér með fylgjuna?
Hvernin eru þær følsku lausnir?
Hvenær innfellur þeßi fæðíng?

um þeßara parta, hvar af þau blódlát koma, er gánga undan þeßum følsku fædíngum; af hverra aukníng módurbotninum géfst orsøk til, ad kipra sig saman og framfylgja fædíngunni.

§. 118.

Peßi kjøt-kénda vera, er fædist, samanstendur af taugum og ædaklasa miklum, er samtengja hana módurlífinu; er hol innan, og yfirklædd med þunnri sléttri húd, innan í hverri er klár vatnsglæta, enn mjøg sjaldan nockurt fóstur; hefir þetta sinn uppruna af módurkøkunni, sem allt af vex þó fóstrid deyi snemma, og hylur allt eggid; þeßvegna: deyi fóstrid út strax eptir gétnadinn, finnst þar til eckert teikn framar í því falska eggi; enn deyi þad út ad lidnum fyrsta edur ødrum mánudi, þá eru leifar þeß enn nú audsjáanligar.

§. 119.

Jafnvel þó bágt sé ad þeckja falskann barnsþúnga §. 37, svo er þó audséd, ad følsk

---

Hvaraf kémur þad blódlát, sem gengur á undan henni?

Af hverju samanstendur þeßi falska laufn?

Hvaraf hefir hún sinn uppruna?

Séft nockud á henni hvenær fóstrid muni daudt?

Hvaraf þeckist ad følsk laufn er fyrir høndum?

lausu sé fyrir hendum. 1) Þaraf: ad blód-látin byrja í tólftu viku medgaungutímans, án nockurrar útvortis undangángandi orsakar. 2) Af því, ad blódrennslid eykst meir og meir og gengur í styckjum frá konunni. 3) Af því, ad réttar hrídir koma, hvar af módur-munninn, sem hángir nidur í módurskeidina, jafnvel þó þyckur sé, spennist þó og opnast. 4) Og ad sídustu þar af, ad fornistid ei kémur í ljós, eins og í fædíngum þeim, er ské einúngis fyri tímann, heldur í stad vatnsins og belgjanna, sá inni fyrir verandi kjötklumpur, sem þreyngist nidur í þann aflánga módurmunna.

§. 120.

Sú falska fæding skédur regluliga og án uppá fylgjandi skada; þegar klumpurinn med heilu og höldnu, af styrk hrídanna, ýtist út allur í einu; enn þegar sasn þetta fædist í smá styckjum, hvad stundum vidber, þá verdur fædíngin óreglulig og skadvænlig; því jafnvel þó hrídirnar og blódlátin hætti eptir fædíngu hvers eins af styckjum þessum, svo aukast þau þó ad nýu, og verda sterkari, allt þar til fædt er, eptir lángan tíma, hvad eitt þad, er módurlífid

---

Skédur þessi lausn ætíd eins, og án skada?

geymir, þá hætta blódlátin og hrídirnar eldsúngis, er konan þá svo mátt-dregin, ad henni batnar ei fyrr enn ad laungum tíma lidnum.

§. 121.

Þad sem yfirsetu-konu byrjar ad gjøra í þeßháttar fædíngum, er því einúngis þetta: ad ransaka konuna, svo hún komist ad raun um, ad hún muni fæda þvílík søfu; rædur hún henni þar eptir til hvíldar og stillíngar; felur hid annad Gudi og náttúrunni, enn adgætir þó gjørla, hvert safnid fædist allt í einu; er hún þeckir: 1) Af þeßa klumps egg-løgudu mynd, innvortis holi og vatnsglætu, sé þad sundur skorid, og af fóstri því, sem stundum er þar innann í. 2) Af hrídunum, sem ad vørmu spori, og blódlátunum, sem litlu sídar, hætta.

Fædist þad þarámót í smá styckjum, má vidhalda kreptum konunnar, med kjælandi, nærandi, styrkjandi og léttri fædu, og med líkam-

---

Hvad byrjar nærkonu ad gjøra í þeßháttar fædíngu?

Hvaraf þeckist hvert safnid fædist allt í einu eda ecki?

Hvad skal gjøra vid konuna þá þad fædist í smástyckjum?

ans og sinnisins róſemi; styrkja módurlífsins samdrætti med jafnadarligum innspýtíngum af køldu vatni, er út kunni ad skola því inni fyrir er, og uppvekja krapta módurlífsins.

Merk: 1) Skal nærkona varast ad vidhjálpa þeßum fædíngum med svo kølludum drífandi medølum, eda med valdi ad opna módurmunnann, hvar af skadi er búinn; bída heldur eptir náttúrunnar egin verkun og þeim rétta tíma.

2) Skal hún adgjæta, ad ecki taki hún þann samanhlaupna lifrada blódklump, er setur sig í módurskeidina, fyri þad rétta safn, heldur skal hún láta þad í volgt vatn, hvar í þad audvéldliga þvælist sundur milli handanna, breytir sinni løgun, og hefir eingva kjøt-kénda þrædi sem finnast í því rétta safni.

Þau ønnur følsku samsøfn, er vera kunna í módurlífinu (§. 27), koma nærkonu eckert vid, hversvegna hér verdur yfir þau hlaupid.

---

Má ecki flyta lausninni med drífandi medølum?
Hvernin verda þeßi stycki adgreind frá blódlifrum?

# Viðbætir
## um sjúkdóma sængurqvenna, og um stólpípur.

### I. Um sjúkdóms-tilfelli ólettra qvenna um meðgaungutímann, og lækning þeirra.

Þeßi eru einkanligast:
Velgja og uppkost; viðvarandi mánaðarás; verkir í og umkríng mjaðmarhrínginn; þvagtregða; harðlífi; æðaskúlk á fótum (varices); læra og fóta bjúgur; lífsýki; blóðfall; takkar; gyllini æð; brjósta stíngir og bólgnar geirvörtur.

Velgja og uppkost.

Falla til um meðgaungutímann, annaðhvert:
1) Af ástigkomulagi sína-kérfisins alleina; má þá konan lifa orðuliga í mat og drykk, neyta léttrar og meltanligrar fæðu, fasta ei of lengi á morgna, eta heldur eitt stycki af smjørguðn brauði með tevatni sínu, eður eitthvað sem er ísallt, svo sem, øgn af sallt-

kjøti eda salltadri hrá-síld; og sé sinakérfid mjøg svo vidqvæmt, eda konan mjøg tilfinn-íngarfull, skal tekid ½ qvint. af því á líkn-ar-búdum svonefnda urtasallti (Sal plantarum), látid renna sundur í fullum spæni af vínediki, og medan þad enn nú freyd-ir, tekur konan þad inn, og svoleidis ann-ann hvern klukkutíma, eda svo opt sem þurfa þykir; 20 til 30 dropar af hinum svo nefndu Hoffmanns-dropum í sopa af køldu vatni, sefa og téd tilfelli optliga. Edur:

2) Af hráslaga í maganum, er þeckist af óhreinni og fardadri túngu, ósmeck í munni, ólyst á mat, spenníngu fyri bríngspølunum, óþægiligum uppstíganda og vindbelgíngi, og s. fr., þá er eitt hægt búkhreinsandi medal naudsynligt, og má taka af þremur eptirfylg-jandi, hvert sem vill:

Tak. 1) Rhabarbaru pulver, Magnesíu, af hverju um sig ½ qvint. blanda vel saman, og tak í einu; eda

2) Tvø lód af enska eda Seidlitzar sallti, lát þau renna í volgu vatni, sía og dreck sídan; eda

3) Manna-sykur og Tamarindur, af hverju 2 lód, vínsteins-rjóma 1 lód, blanda saman og tak inn, sodid í vatni og síad.

3) Kann þeßi veikleiki optliga ad koma af of miklu blódríki, þegar mánada tídirnar undir eins halda upp; þetta þeckist af ofurhræríng blódsins, sljúgandi hita, raudu andliti, høfudpínu, svim, þúnga í limunum, óroligum svefni, fullum og spenntum ædaslætti, og vidvarandi uppkøstum; hér vid er rádligt ad taka blód á handlegg, svo ad svari tveimur eda þremur te-koppum, ráda konunni þunnann mat, svalt lopt, jafna hræríngu, kjælandi drycki med ediki, cítrónsaft eda ribssaft, og s. fr.

## Viddvarandi klædafoll.

Komi þau á réttri og venjuligri tíd, um medgaungutímann, af heldur miklu blódríki, og séu ei mjøg mikil, þá megu þau álítast sem medal vid blódríkinu, skada því eckert, og þurfa ei lækníngar vid. Enn séu þau afar mikil, og komi í stórum klumpum, verdur konan ad halda sér í kyrrd, gáuga hverki né erfida, heldur liggja í ró, brúka kjælandi lifnadar máta, og eptirfylgjandi svala-pulver:

Tak. Vínsteins-rjóma 2 lód, hreinann salltpétur 2 qvint., af þeßu samansteittu taki hún, eptir kríngumstædum og hættu tilfellisins, fulla teskeid, annann eda þridja hvern

tíma, sundurhrært í 2 tekoppum af volgu vatni.

## Verkir í og umkríng mjadmarhrínginn.

Peßir koma tídast af þýngslum fósturins og þrýstíngu á þá undir liggjandi limu, sefast þeir vid barnabalsam (?), hvarí væta skal klædi og leggja um verkinn; í naudsfalli skal opna æd, ef lífædin er hørd, og sótt er í kroppnum; gott væri og ad setja konunni eina sefandi stólpípu.

## Þvagtregda.

Kann ad falla uppá í þridja eda fjórda mánudi; af því módurlífid vex og þrýstir á blødru-hálsinn, safnast þvagid fyrir, þenur út blødruna, og spennir qvidinn upp undir nabla; því meir bladran útþenst, því lengra dregst módurmunninn upp fyrir ísbeinid, enn módurbotninn kastar sér aptur á bak nidur í skálina mót endaþarminum, og finnst sem þrútin kúla gégnum hann og módurskeidina. Peßvegna, ef þvagid teppist svo snemma um medgaungutímann, er ætíd hætt vid, ad módurlífsins bakfall sé orsøkin, náist þá varla upp til módurmunnans, og finnist téd kúla gégnum endaþarminn, svo er uppi sporid, og er þvílíkt tilfelli ei ad vettugi hafandi.

Merk: Þetta móðurlífsins bakfall (retroversio uteri), er fyrst uppgötvað af einum frönskum lækni, síðan aptur í ljós leidt af hinum stóra William Hunter í Englandi; verði ei vart við það í tíma og að því gjördt, er ómöguligt að ráða bót á því á álíðnum meðgaungutíma, bólga og drep hleypur í móðurlífið, og konan má deya aumkunarliga.

Strax og fundið verður með ransókninni, að þvílík orsök er til þvagteppunnar, skal færa inn í gegnum þvaggánginn í blöðruna, eina þar til lagaða silfur-pípu, (sem læknar kalla catheter), til að útrýma þvaginu sem fyrst, síðan skal smeygja tveimur lengstu fingrum annarar handar inní móðurskeiðina upp fyrir ísbeinið til móðurmunnans, og vísifingri hinnar handarinnar inní endaþarminn, konan skal krjúpa á fjórum fótum í rúmi sínu, og setja niður olbogana, svo skal reyna til að þrýckja, með fingrinum í endaþarminum, á móðurbotninn, og ýta honum uppá við og framm í qviðinn, enn með hinum tveimur fingrunum í móðurskeiðinni, bera sig að þrýsta móðurmunnanum niður á við móti miðpúnkti skálarinnar, svo móðurlífið þannig kunni að rétta sig framm á við aptur.

Ad því búnu má konan halda sér í mestu ró og kyrrd lengi á eptir, sjá má og til ad ecki safnist þvagid fyrir á ný, heldur leidist út med fyrr nefndu verkfæri, ad eigi verdi hid seinna argara hinu fyrra.

Sé módurlífid eigi til baka fallid, heldur med þúnga sínum alleina þrycki blødrunni og teppi þvagrásina, þá skal konan leggja sig eins og í hinu fyrra tilfelli á kné og alboga, svo ad módurlífid sígi frá blødrunni upp lengra í qvidinn, og kémur þetta optast ad gódu haldi, einkum sé álidid medgaungutímann, og módurbotninn ordinn stæckadur.

Sé konan mjøg svo frammlíf, ad op blødrunnar þeßvegna klemmist vid ísbeinid, og svoleidis valdi þvagteppu, skal hún løgd á bakid, halda sundur lærunum enn kreppa knén upp á vid, og spyrna hælunum í eitthvert vidurnám, setja skal undir hana mundlaug edur annad jafn hentugt ílát, sídan ýti hún sjálf, eda yfirsetukonan, qvidnum frá lífbeininu, med hendi sinni, uppá móti brjóstinu.

## Hardlífi.

Hér vid eru mýkjandi þarmlútir einna þénanligastar; þar ad auk skal konan neyta þeß matar og dryckjar er ecki bindur, heldur

gjørir laust líf, eru það laktúkur, spinat, salat, súru- og heimulu-kal, fíkjur, rúsínur, kórennur, epla saft eda grautur, allskyns grjóna súpur, ølbraudsúpur med púdursykri, linsodinn og þunnur mjøl- eda grasagrautur, og annad sl. Tekid gétur hún og inn, nockur qvøld í rød, vid háttatíma, eitt eda fleiri lód af mannasykri hreinu, í volgu vatni, edur annad sem rádid er ad framan mót uppkøstunum.

Æda-skúlk á fótum.

Séu æda þrotarnir eigi mjøg sárir, má leggja kompreßu eda fjórfalldann klút yfir um fótinn, vefja þar um bandi edur linda þriggja fíngra breidum, nedan frá rist og upp fyri kálfa og láta konuna þar ad auk vera í bestu makindum. Enn séu þeir sárir og brennandi, skal opna henni æd, láta blæda 2 eda 3 koppa, leggja vid fótinn urtaposa af kamillu- og hyldiblómstrum eda sápu-plástur, ellegar fjórfaldann klút, vættann í kamfóru og regnorma brennuvíni bløndudu saman til helmínga; bæri svo til ad nockur æd sprýngi, skal þarvid løgd kompreßa, vætt í sterkasta distilérudu brennivíni.

Þroti og bjúgur læra, fóta og blygdunar vara.

Jafnvel þó þetta sjaldan batni vid annad enn fædíngu sjálfa, má þó vægja því med volgum ullar klædum, og ødru lodnu tægi, er heldur hita ad hinum þrútnu limum, vid þá má og leggja volga saudpoka edur steina í rúminu, samt urta- og sallt-bakstra volga, og annad fleira.

## Lífsýki.

Skérpa sú í þørmunum, er sem optast orsakar lífsýki þeßa, skal fyrst um sinn burthreinsast med fylgjandi púlveri:

Tak. Rhabarbaru rót 20 grøn edur byggkorn, tilreidd krabba augu 10 eda 12 grøn, salltpétur og múskatsóber, af hverja 3 eda 4 gr. steyt þetta saman til púlvers, og géf henni inn í einu, og ad tveimur tímum lidnum annad eins.

Þar á eptir skal hún drecka eptirfylgjandi seydi:

Tak. Tilreidt hjartarhorn 1 lód, tilreidd krabba-augu og blódrót, af hverju fyri sig 3 qvint., smámulid hveitibraud 2 lód, sjód þetta til samans í 1 eda ½ potti vatns stundarkorn, sía svo gégnum klút; blanda má þetta fyri smeckbætir, med litlu af sykri og kanelberki.

Ellegar konunni er fyrst gêfid inn púlver af rhabarbaru rót og saltpêtri, 1 qvint. af hverju, sídan hvern annann eda þridja morgun 26 til 35 grøn af salltpéturs púlveri, enn matur hennar og dryckur séu hafra- og bygg-súpur. Sefist ei lífsýkin vid þetta, má gêfa henni inn vid háttatíma 20 grøn af því svo kallada theríaki í einum spæni víns, halda á henni hita, og láta hana hverki smacka brennivín, kjøt, nê annann sterkann mat.

## Blódfall.

Þar um er ádur nógsamliga talad blds. 94. og 192.

## Takkar.

Takka kalla Danir nabba þá, er optliga setjast kríngum endagat vanfærra qvenna, og eru misjafnir ad aumindum á ad taka. Séu þeir sárir, og konan annars blódrík, er henni fyrst tekid blód á handlegg, hér um 3 léligir koppar; enn séu þeir ei mjøg aumir, má alleina setja konunni sjólpípu, til ad bleyta upp þau hørdu saurindi, enn varliga má þad skê, ad ecki olli pípan sársauka; dýfa má og klúti í kallt vatn, og leggja med jafnadi vid nabbana, sefar þad pínuna og hinn brennandi

hita er fylgir þar med, samt liuar spenníngu þá og þreyngsli, er þar af leidir; eins má og brúka blývatn (aqva saturnina) uppá sama máta, varnar þad ágæta vel vid bólgu, sefar og svo pínuna furdanliga. Blódsugur utan til vidlagdar, eru þid besta medal þegar nabbarnir eru mjøg þrútnir; enn ef þær ei fást, má brúka bød af kattar-osti, kóngaljós-blómi (svo uefnast tvær urtir hjá Donum, er fást á apótekum), og hørfræi, er þetta sodid í mjólk, stad í kollu, settur yfir meis, og konan látin setja sig þar ofan á, og þakin føtum, ad gufuna leggi upp undir þarfagánginn; láta má og glóandi steina nidur í kolluna til ad auka gufuna eins og vill. Til smurníngar á nabba þeßa, ef ecki til ad dreifa þeim, þó ad minsta kosti til ad sefa í þeim mestu pínuna, brúkast fylgjandi salve:

Tak. Silfurglit-smyrsli 6 qvint., bólmjurtar-olíu sodna 2 qvint., kamfóru 40 grøn, saffrán 20 grøn, ellt þetta allt til samans í mortjeli, og gjør ad smyrslum.

## Gyllini-æd.

Kallast alment þegar blódugur og sárinda fullur er vallgánguriun, án þeß þad leidi af blódsótt.

Sé þetta tilfelli að litlu marki, þarf ei neitt þarvið að gjøra; enn sé bragð að, og konan annars blóðrík, skal taka henni blóð á handlegg, sjá til að hægðir hennar til baksins séu liðugar, er best skeður með stólpípu, þar að auki skal hún drekka kínabarkar seyði, er ypparliga verkun gjørir slíku tilfelli, er það tilbúið þannig;

Tak. Stórgjørðt kínabarkar púlver 6 lóð, sjóð það í $1\frac{1}{2}$ potti af hreinu vatni niður til þriðjúnga, sía svo á fløsku gégnum hreint lín.

Af seiði þeßu géfist henni 1 til 4 spænir hvern kluckutíma eður annann hvern dagliga, svo lengi þeß með þarf.

## Brjósta stíngir og bólgnar geirvørtur.

Stíngirnir linast best, ef um brjóstin er lagður lérepts klútur yfirklíndur með kamfóru-olíu eður áðreifður þurri muldri kamfóru; plástrar gjøra ei annað enn veikja brjóstin meir; enn séu þau mjøg svo þrútin og rauð, klæi og séu þó sárindafull, má jafnframt taka konunni blóð, og umfram allt sporna við, að hverki fatnaður né annað þrýsti eða særi brjóstin. Um geirvartna bólgu skal hér eptir rædt.

## II. Um sjúkleika tilfelli sængurqvenna, og þeirra lækníng.

Kránkdæmi þau er sængurkonum tilfalla kunna, og nærkona á ad bera sig ad ráda bót á, svo framt í hennar valdi stendur, eru:

Mersli módurskeidar og blygdunar; hreinsunar teppa; eptirhríðir; módurlífs-, módurskeidar- og endaþarms-sig; þvaglát; vallgángslát; stálmi og bólga í brjóstunum; mjólkurkalda; og geirvartnanna tilfelli.

Fleiri tilfelli kunna sængurkonum til ad vilja, enn ella batna þau sjálfkrafa, edur þá hin önnur batna, ellegar þau yfirgánga vitsmuni nærkonu, og leyfir hverki tími né hendtugleiki vid þeim ad hræra í þetta sinn.

Mersli útvortis fædíngarlima.

Þetta kann ad ské ad afstadinni hardri fædíngu, er þá best sem fyrst ad ná í burtu blódlifrum þeim, sem vera kunna í módurskeidinni, bada sídan fædíngarstadinn med volgu vatni og ediki tilsamans, sídan daginn eptir med volgri mjólk, leggja yfir hann urtapoka med kamillu- og hyldiblómstrum, dýfdum í

og kreystum upp úr heitri mjólk, umframm allt má nærkona kappkosta, ad halda þessum stødum hreinum, þvo þá opt í volgri mjólk eda þunnu hafraseydi, og idugliga skipta um skyrtur og ílegu klædi konunnar jafnódt og þau qvolast.

## Hreinsunar teppa.

Hreinsun kallast blód þad er á eptir fædíngunna ødruhverju rennur út af fædíngarstadnum, varir þad stundum eigi yfir 6 daga, enn optast lengur, og er ecki annad enn dreiri sá, er sigtar úr ædunum er láu frá fylgjunni til módurlífsins, og slitnudu í hennar fædíngu. Þá gengur hreinsunin sem henni byrjar, er konan hverki finnur sárindi né herdslu í qvidnum, eingan óvenjuligann seydíng í kroppnum, ei þorsta, mædi, magaleysi né adra sóttar umleitun, þolir og nockurnveginn ad láta þreifa um og stydja sér á lífid; af rúmklædum konunnar má reyndur giska, hvert hreinsunin gengur mátuliga, enn medan ad konan er ad ødru ósjúk, þarf ei ad gèfa sig svo mjøg um, þó hreinsunin sé ei svo mikil, svo sem um heilbrigdi hennar; annars má halda hreinsuninni vid med gódri og nákvæmri lifnadar ordu, medan konan stendur ei á fætur, og slausi hún

aldeilis, má uppvekja hana með mýkjandi stólpípum, með dryckjum af þunnri hafra- og bygg-súpu, seydi af kamillu blómstrum, og ødrum temprandi medølum, svo sem vínsteins-rjóma púlveri, temprandi kamfóru púlveri, hvar af henni er géfin 30 grøn í einu, þrisvar eda fjórum sinnum á dag.

## Eptirhrídir.

Ecki skal nærkona hreinsa módurlífid med hendinni eptir fædínguna, sem margra er sidur til, þvi þarvid særist þad og ecki annad, nema svo sé, ad eptirhrídirnar aukist vegna eptir ordins smælkis og blódklumpa, er þryckja módurmunnanum, og komast ei út vid hrídanna mátt alleina.

Sefa má sterkar og vidvarandi eptirhrídir med mýkjandi stólpípum, og bødum af hylldi- og kamillublóms-seydi, er því steckt í lodid ullartægi, og lagt utan á allan qvidinn; jafnframt taki hún inn mandelmjólk med kamfóru, eda 10 til 15 dropa af hinum svo kølludu kamfóru dropum (liqvor nervinus) í einum mola af hvítu sykri; hylldiblómstra the er henni og þénanligt.

## Módurlífs-sýg.

Módur-sýg kallast, þegar mædrid súhst um edur sígur út í gégnum módurmunnann, annadhvert nidur í módurskeidina, edur aldeilis út af fædíngarstadnum, kallast hid fyrra ófullkomid, enn hid sídara fullkomid.

Þess er ádur gétid, ad orsök til þessa gétur verid, annadhvert ad læknrinn er of stuttur í verunni, eda vafinn um háls barnsins og adra limu, ellegar nærkona hefir dregid of fast í hann þá hún sókti fylgjuna, másské og ad fósturins höfud hafi horst rétt nidur, skálin verid vid, hrídirnar sterkar, og allt spennust út í einu.

Ecki einúngis veldur þetta verkjum í módlífinu og lendunum, blódláti, sótt og ødru, heldur stærri hættu, nefniliga bólgu og drepi í hinu útfallna mædri, er endast med daudanum, sé ei skjótliga adgjørt.

Undir eins og konan qvartar um nockur þýngsli og óhægd í módurskeidinni, edur utan fyrir henni, samt verk í sama stad, er leggur aptur í lendar og uppí nýru, má nærkona strax ransaka hvad þad er, finni hún þá botn módurlífsins í skeidinni edur sjái hann utan

fyri fæðíngarstaðnum, leggur hún konuna aptur á bak, eins og þá snúníngurinn á að gjörast, smyr fíngur sína, og ber sig að með þeim að ýta honum lagkænliga inn aptur á sinn rètta stað; samankipri móðurmunninn sig, og mæðrið sé svo bólgið, að því verði ei innkomið, má við það leggja af bakstur á bleytandi urtum, soðnum í mjólk, og þá bólgan er úr, reyna til að koma því inn; þegar því er þá innkomið, strýkur hún með hendinni allar hrukkur af því að innan með mestu varúð, lætur það svo draga sig saman utan um hnefa sinn, og dregur svo hendina sem gætiligast út, að mæðrið ecki fylgi með á ný; að því búnu liggur konan um kyrt um hríð, á bakið, og lágt með efri part líkamans. Nockra daga eptir burðar hún það eina, er géfur liðugar hægðir, og skyldu þær verða tregar, má sem best lidka þær með stólpípu, að mæðrið ecki niðurþrýstist og sígi út aptur.

## Móðurskeiðar-sýg.

Þeckist þannig, að í móðurskeiðinni finnst og sést einhverr sárinda fullur bjúgur eða þroti, er ýtist framm fyri höfuðið á fóstrinu og hindrar þess útgáng, fyllir upp móðurskeiðina, ver,

roduar og verdur ad sídustn blár; halda optliga óreyndir, ad þetta sé høfud fóstursins.

Þetta kann ad orsakast af ofur-linleika módurskeidarinnar, og af því ad høfud barnsins er of stórt eda liggur illa, svo þad um of þrýckir módurskeidinni.

Á þessu er bót rádin sem ádur er kénnt, nema ad hér eí um módurskeidina enn ecki mædrid ad gjøra.

## Endaþarms- edur bak-sýg.

Heitir þegar hid ytsta af endaþarminum sígur út; skal nærkona strax sem qvinnan er ordin léttari, vefja sínum klúti um vísifíngur sinn og laungutaung, og bera sig ad ýta med þeim inn aptur þarminum, leggja svo klút vættann og undinn upp úr volgu víni; margfaldann vid endagatid; og til ad halda þarminum inní sídan, er bundid einum linda utan um midtid, hvarí á baka til er fest eitt band er gánga skal nidur í lenda skoruna framm í millum læranna, og hnýtast í lífbindid ad framan, fyrir ofan ísbeinid; sé þarmurinn svo bólginn, ad honum verdi ei innkomid, er hann mýktur med sømu urtabekstrum og ádur er rádid vid módursýgi.

## Þvaglát.

Kallast þegar konan vegna einhverrar orsakar lætur þvæginu þvert á móti vild sinni; kunna þar til að vera tvær orsakir:

1) Rifa á blöðru-hálsinum, komin af því, að annaðhvert nærkona eður hin fæðandi hafa forsómað að tæma blöðruna, áður fóstursins höfuð kom niður í skálina, hefir það síðan samanklemmt blöðru-hálsinn, svo þvagið hefir út þanið blöðruna, hálsinn marist, og um síðir rifnað.

2) Linleiki í blöðru-hálsinum, þegar höfuð fóstursins lengi hefir klemmt hann.

Hið fyrra þekkist, þegar þvagið síseldt drýpur í gégnum móðurskeið og blygðun konunnar, með miklum sviða og sárindum, er þó smámsaman mínka; í þvæginu finnast smá himnur, í móðurskeiðinni smá hlandsteinar, og í blöðru-hálsinum ein rifa. Hið síðara þekkist og svo af síseldum lekanda þvagsins, hverju þó ei fylgja mikil sárindi; engin rifa eða hlandsteinn finnst í móðurskeiðinni.

Hvað hinu fyrra tilfelli viðvíkur, svo er þeß lækning torveld, þó ei alltíð ómögulig; konan má allt af hafa ena áður nefndu silfurpípu í þvággánginum, svo þvagið ecki renni

út í gégnum rifuna, hér vid skédur þad stundum, sé rifan ný, ad barmar hennar gróa saman.

Ecki mundi heldur forgéfins ad reyna til med nýann garnarstúf, binda fyrir annann enda hanns, pota honum inní módurskeidina, blása svo upp garnarspottann, og binda fyrir ad utan; þeßi uppblásni garnarstúfur þenur út módurskeidina, heldur fyrir og saman þrýstir rifunni, medan þvagid rennur út um silfurpípuna. Ad brúka stycki af njardarvetti í stadinn fyri gøruina, er ei rádligt, því hann læsir sig inní rifuna, og hindrar grædslu hennar.

Vilje rifan einganveginn gróa mætti konan, til ad afverja þeim óþægiliga daun er þvagid veldur, þegar svo fer, láta smída sér dós af pjátri, lagada sem krákuskél eda aflángt skeidarblad, er félli sem næmast yfir fædíngarstadinn, er hún bundin føst med einslags bandi løgudu eins og látínskt T, hvar af þad og nefnist T- bindi, eda med sama bindi og ádur er rádid vid baksyg; nedan til á pjáturdósinni er eitt gat med stúti, er út snýr, á þennann stút er skrúfud ein kálfs- eda svínabladra, er þar til er útbúin med skrúfu korui, er svarar stútnum; þvagid safnast þá í blødr-

una, og þegar hún er full, gengur konan afsidis og hellir úr henni.

Vid hinu sídara tilfelli er svamp stycki dýft í kallt vatn, látid inní módurskeidina, hid besta medal, samt kínabarkar seydi og álúns mysa til inntøku, mysan gjørist þannig:

Tak. Mulid álún $1\frac{1}{2}$ qvint, set þad útí 1 pott af sjódandi ny mjólk, hrær í þar til ystir, sía frá mysuna, og lát renna í henni 2 lód sykurs.

Af tédri mysu má drecka gyldann thebolla í senn 4 sinnum á dag.

## Vallgangslát.

Heitir þegar konan ecki gétur haldid vallgángi sínum, er best vid því hid fyrrnefnda kínabarkar seydi innvortis, og kallt vatn útvortis.

## Stálmi og brjóstá bólga.

Þegar mjólkin hleypur í brjóstunum, gjørist þvaga af hampi, gégnumreykist vel med reyk af hørfræi, leggst sídan volg á brjóstin, og þetta má optliga ítrekast; brúkast kann og ef vill melilóts-plástur, gúmmí-plástur, eda umslag af hveitibraudi med litlu saffráni, sodnu í mjólk sem kackþyckur grautur, er þad lagt volgt á brjóstin hvern þridja eda fjórda tíma,

jafnframt lifi konan hófliga í mat og drykk, og sjái til ad hafa lidugar hægdir til baksins.

Vilje bólgan ei dreifast, og ígjørd ætli ad koma í, má halda áframm med gúmmí-plastrinn eda grautar umslagid, og til ad flýta því heldur greftri, má í stadinn hveitibrauds brúka hafurgrjón, og láta þar í gamallt smjør og smáskorinn raudlauk; betra er ad stínga med lansetu hol á meinid þá fullgrafid er, heldur enn ad láta þad sjálfkrafa opnast, er þá settur í þad léreptsskéri til ad halda opnu, svo lengi sem grefur og bólgan hverfur ecki, enn brúka skal grautinn allt af á medan utan yfir, ellegar fyrnefndann gummí- eda melilóts-plástur.

## Mjólkurkalda.

Mjólkurkaldan er einn sóttar snertur, er flestum sængurkonum tilvill medan mjólkin er ad setjast í brjóstin, þremur eda fjórum døgum eptir fædínguna, byrjar hún med litlum kulda-hrolli, hvar á eptir fylgir hiti og þorsti, brjóstin verda undireins þrútin. Allsjaldan varir hún yfir einn sólarhríng, og krefur eigi annars enn góds adbúnadar og hófligs lífernis í mat og drykk.

Leggi ei konan barnid á brjóst, þekur hún þau med margføldum volgum klúti eda líndúk, er um þá skipt jafnódt og þeir vøkna, og séd til ad sem minnstur kuldi komi ad brjóstunum; og hún búi sem best ad hálsi sínum.

Til ad varna ad mjólkin stilmi, má konan halda sér í jøfnum dampa, drecka opt te edur annad þunnt, borda lítid eitt af bygg-, hafra- eda ødrum þeßkyns súpum, þángad til mjólkur-kaldan er afstadin.

Vilje hún leggja nockud vid brjóstin til ad varna ádur nefndum stálma, má þad vera hvalamburs-plástur, eda annar, gjørdur af nýu smjøri, hjartartólg, hvalambri og jómfrúvaxi, smyrjast kunna þau og med tómu nýu smjøri, pópul-salve, og sé þarad auk ad þeim búid sem ádur er sagt.

## Geirvartna tilfelli.

Séu þær svo smáar, ad varla meigi til þeirra ná, er nockurra mánada gamallt brjóstbarn eda fullordinn madur látinn sjúga þær út, nockrir draga þær og út med nýrri tóbakspípu, og med einslags þar til løgudu suguglasi.

Fleydradar og sprúngnar vørtur má smyrja med eggja-olíu, arceus-balsami, vaxolíu, myrru-olíu, lakris-salve, eda smyrslum af

mandelollu, nýu vaxi og sykri, enn þvo skal vorturnar í hvert sinn ádur barnid er lagt á, svo ei komi í þad uppsiytta ad sjúga; framar ødru má konan, medan þetta varir, lifa sidliga í mat og dryck, og sjá til ad hafa alltaf gódar og lidugar hægdir.

## III. Fyrisøgn um þarmlútar og stólpípu nytsemi, tilbúning, og brúkunar máta.

§. 1.

Af øllu því sem nærkona, til lækníngar og hjálprædis óléttum og barnsængur konum, þarf ad vita og kunna ad brúka, er þetta medal ecki minnst máls verdt. Er hér vid skilin nockurskonar lút (Clysma, enema, lavement), sem ígegnum eina pípu, setta í endagatid, verdur sþýtt inn og upp í þarmana.

§. 2.

Opnandi þarmlút ysirhøfud, eda sú sem menn setja, til ad opna og hreinsa lísid, samaustendur af þrenn-slags samverkanda efni, sem er:

1) Sundurbleytandi (diluens), uppbleytir þad og sundurþvær þau hördu og seigu óhreinindi, og er þad vatn eda mjólk.

2) Uppörfandi (stimulans), örfar þad þarmanna náttúrligann krapt, til ad fá drifid saurindin þeß fljótar sinn vanaliga veg; hér til brúkast sallt.

3) Mýkjandi (mitigans), sefar þad þá óhægdar tilfinníng og stíngi, sem bædi sjálft hardlífid, og hid uppörfandi efni orsakar, gjörir og svo þarmana hála og liduga fyri þad sem út skal drífast; hér til brúkast bómolía eda smjör.

§. 3.

Í mjólkur og vatns stad má brúka eintómt vatn, sodid eda ósodid, þunnt hafra- edur byggseydi, öl, mysu, kjöts- eda fiskisúpur, eitt í senn eda fleiri tilsamans; og í einu ordi, allt hvad þunnt og óskadvænligt er, hefir bleytandi, þynnandi og burtskolandi krapt, og er af þeßu tekid til fullordinna, 2 til 3 pelar í senn; í stadinn fyri bómolíu má brúka nýtt smjör, vel fullann spón af því óbræddu; eda línolíu 2 fullar matskeidar, sem hræraſt og jafnaſt skyldu ádur saman vid eggja-rauda, svo þýdast kynnu vatnid; þad má og í olíu stad brúka rjóma.

Annars er adgjætandi, ad þeß meira sem hardlífid er, því meira verdur ad brúka af feitinni, til ad mýkja verkina og gjøra þarmana sleipa. Med því salltid kann ad orsaka verki og óhægindi í þørmum hins sjúka, má heldur setja tvær pípur hverja eptir adra, med litlu sallti, enn eina med miklu, hálf og heil full matskeid er nóg; og jafnvel eckert sallt má brúka, sé sjúklingi hætt vid þrota edur flódi gyllini ædar, magapínu, edur hann hefir þá sterkustu vallgángs teppu, hverri ad fylgir hardur verkjar stíngur fyri lífi. Hvar sallt er of sterkt, má brúka sykur, þar þad uppørfar sídur, enn hverttveggja í senn er ónaudsynligt; þá slimleysandi og opnandi verkun fremur salltid meir enn sykur, samt plagar þad ad setjast til þá þad er nóg til, púdursykur eda steytt hvíta sykur er þénanligast, ein matskeid full er nóg; í stadinn sykurs má brúka hunáng.

§. 4.

Utvortis nytsemi hinnar opnandi þarmlútar er sú, ad hún færir saurindin og annann þeim sameinadann hroda burtu, bædi úr sjálfum endaþarminum og þeim efri. Innvortis nytsemi þeirra býr í hag fyri þá útvortis med þrennu móti: med því ad sundur-

þvæla bleyta og rífa upp saurindin, uppørfa krapta þarmanna til ad hrinda saurnum frá sér og géfa hægdir, og safna veþum þarmanna ad sér. Af øllu þeþu fljóta margfaldar adrar nytsemdir; veþarnir flytjast frá einum stad til annars, dragast þadan frá er skada valda, blódsins ólga, teygjur, qveisa og verkir sefast og bætast, med ødru fleira, hversvégna þetta medal er í flestum sjúkdómum hid allra nytsamligasta.

§. 5.

Jafnvel þó búkhreinsandi medel (laxantia) skoli ecki sídur magann og þá efstu þarma, dragi og veþa frá høfdi nidur eptir jafnbetur enn þarmlútin, þá hefir hún samt eingu ad sídur sæti fyri þeim:

1) Hjá øllum þeim, er vegna herdslu saurindanna, ei hafa náttúrligar hægdir, því þó menn í þvílíku tilfelli fyriskrifi eina búkhreinsun, er þó hætt vid, ad þau herdu saurindi nedst í endaþarminum stíbli og hindri útrás þeirra er ad ofan koma, nema ein stólpípa sé sett til hjálpar ad nedan.
2) Ef hinn sjúki annadhvert ecki vill eda kann taka búkhreinsandi medal inn med munninum, enn ástand hanns útheimtir þó fljóta

adgjørd og verkun, er stólpípan ómißandi, þar hún innan fárra mínúta (á drucklaungum tíma), og ad vísu fyrr enn búkhreinsanin, opnar þarmana.

3) Á líkann hátt er stólpípan eda þarmlútin óvalltari í øllum stríđum og bráđum sjúkdómum.

4) Þeim er þjást af bólgu og ígjørd í qviđnum.

5) Øllum óléttum og barnsængurkonum, og almennt ad segja:

6) Hvar jafnvel þad mjúkasta og hægasta búkhreinsandi medal kynni sýnast ísjárverdt, þar er eina milda og einfalda þarmlút alldrei ad ugga; ad sønnu sé hún mjøg sterk, orsakar hún verki og óhægd í lífinu, er því betra ad setja fleiri hægari og mildari, enn eina of sterka (sjá §. 3).

§. 6.

Vegna alls þeßa ætti stólpípan ad vera til og brúkast, ecki einasta á støku stødum heldur á hverjum bæ; sérhverr handlæknir, sérhver nærkona, er reyna svo opt og þráfaldliga nytsemd hennar, megu hennar annars í mißa, nema þau láti sér annt um vera, ad ráda til og útbreida þetta svo naudsynliga medal.

§. 7.

Sú almeaniliga edur hvers dags þarmlút verdur tilreidd af því af ádur sögdu (§. 3), sem nærst er vid höndina; opt er eintóm mjólk eda vatn, med nockru salti eda sykri, og jafnvel án þeß allvel brúkanligt; sjóvatn med hunángi, og í adþreyngjandi naudsyn varmt þvag heillrar og ósjúkrar manneskju, hefir opt ad haldi komid; (þó er þvagid ecki tilrádandi).

§. 8.

Almennilig þarmlút er svo tilbúin:

1. Tak Sjódandi ny-mjólk, hreint vatn, af hverju um sig 1 mörk, medan þetta enn nú er snarpheitt, sláist út í smá mulid salt ½ spónn, bómolía 2 spænir. Þetta hrærist vel saman svo saltid renni, og þá þad er ny-mjólkur volgt, hellist í blödrung.
2. Tak. Sjóvatn 1 mörk, set til þá þad er volgt, hunáng 2 spæni; hrær til samans.

§. 9.

Mykjandi þarmlút verdur þannig tilreidd;

3. Tak. Vatn eda þunnt hafra edur byggseydi 3 pela, hell því sjódheitu á eina handfylli af hyldiblómstrum; þá þetta er farid ad kólna, síast þad þunna frá, í hvert menn þá setja olíu 2 spæni, púdursikur eda hunáng 1 spón, hrærist tilsamans. Edur:

4. Tak. Mjólk, olíu eda brædt smjør, af hverju um sig ½ pela, hrær til samans yfir hægri glód.

Slík þarmlút hefir sína sérligu nytsemi, þá sjúklíngur er, ásamt med hardlífinu, uppþembdur af vindi, eda þvíngadur af kveisu, spenníngu edur annari óordu fyri lífinu.

§. 10.

Vid allra þarmlúta handteríngu ér ymisligt ad taka vara á, skuli þær til fulls gjøra gódar verkanir, og ecki valda bágindum. Tilhlídilig gaumgæfni nockurra smá atvika og rétt adferd þeirra sømu, afmáir allann þann vidbjód, sem stólpípan annars hjá sumum kann ad færa med sér; hid einkanligasta er þetta:

1) Pípan er gjørd af beini eda tini, kann og ad rennast af tré. Til fullordinnar mannesskju mætti hún vera digrari enn almennt er vant, og holid svo vidt, ad mjór tóbakspípu leggur kynni ad gánga í gégnum; þær allt of mjóu og nettu stíblast hægliga, hvar vid pípusetníngin verdur bædi ørdug og óþægilig.
2) Ein bladra er betri og ódýrari enn stólpípur þær, sem líkar eru vatnsbiðu, og er bladran bundin efst á pípuna; enn þá hún skal fyllast, er aptur bundid þétt fyrir ofan píp-

una um blødruna, med einum lyckju hnút, og sé lagt merki til þess enda, í hvern taka skal síðan. Þá bladran er fyllt, er enn nú bundid ødrum þrædi fyrir ofan, svo þétt sem verdur, ad sem minstur vindur verdi í blødrunni.

3) Þarmlútin sjálf má hverki vera þyck eda seig, né hafa annad í sér, er stífla kann píp-una; hún má vera vel ný-mjólkur volg, svo madur ad eins þoli ad halda blødrunni, í hverri hún er, nockra stund vid augna-lokid, án þess ad finna of mikinn hita. Yfirhøfud hjá blódríkum, og øllum sem þjást af miklum seydíngi og hita, má þarmlútin ecki vera heit.

4) Adur pípan er sett, skal hún smyrjast med smjøri eda olíu svo hún verdi hál og sleip, og gángi betur inn. Enn þá hún er komin inn fyrir endagatid, má ei ýta henni beint á framm, heldur lítid aptur á bak til hrygg-jar, því annars kann hinn sjúki ad kénna til.

5) Þá pípan er sett, og kominn inn ad því hvar bladran er bundin um hana, skal sá fyrrnefndi lyckju hnútur leysast, og bandid takast af, þar eptir sé bladran lagliga kreyst, og lútinni þannig spýtt inní þarmana.

6) Tæmist bladran tregt og eitthvad sýnist standa í vegi, má ei med makt ýta pípunni inn, heldur med lagi rétta hana, eda láta hinn sjúka leggja sig ødruvísi, eda draga pípuna aldeilis út aptur, til ad sjá eptir hvad helst kunni ad standa í vegi.

7) Sá er pípan skal setjast, má, ef kríngumstædur annars tilláta þad, vera fastandi, eda ad minsta kosti ecki hafa nýliga bordad. Hann skal liggja á hina hægri hlid, og þá þad er yfirstadid, snúa sér á bakid eda hina vinstri hlid, og halda þarmlútinni med sér, svo leingi sem honum er møguligt.

---

# Registur.

Merk: Tölin þyda §., enn ei Pag., nema hvar bladsídutal er ávísad.

## A.



## B.



## D.

## E.



## F.

## O.



## P.



## Q.



## R.



## S.

## T.



## U.

